# Himnesk alyktan umm Dauda Riettchristenna Manna og Peirra Frijheit efter Daudann

Af Apoc. 14. v. 13.

Yfervegud i Einfalldre

# Lijkpredikun

I Sijdustu Utfarar Minning
Hai-Edla og Velbornu Frvr
Sal.

# Gudrijdar Gisladottur,

(Blessadrar Minningar)
Pegar Hennar Andvana Lijkame
var med Hatijdlegre Lijkfilgd, lagdur i sitt Svefnhuus
og Hvijlldarstad Innann Skalhollts Doomkyrkiu
þann 6. Martii 1766.

1 Corinth. 15. v. 27.
Gude sieu Packer sem oss hefur Sigurenn gefed, fyrer
Drottenn vorn Jesum Christum.

Kaupmannahøfn, 1767.
Prykt af Andreas Hartvig Godiche, Kongl. Universitets Bogtrykker.

Efter Begiering har jeg giennemlæst den Liigprædiken, Herr Jon Thordarson har holden over Høyærværdige Herr Biskop Finner Jonssins Frue Gudriider Gisle Datter, og funden den saa vel skreven, at den saavel til Den Saliges Amindelse som andres Opbyggelse er værd ved Trykken at vorde bekiendtgiort.

Kiøbenhavn den 5. April 1768.

L. Harboe.

Imprimatur, J. A. Cramer.



# Hai-Edla Hai-Æruverduge
og
Halærde Herra!
Herra
# Finnur Joonsson!
Superintendens Skalhollts Stiftes!
Gud gefe ydur mikla Nad og Frid!
1 Pet. 1. v. 2.

---

## Haattvirdande Herra!

Vier vonum uppa hann Lifanda Gud: seger Postulen Paulus umm sig og adra Postulana, sem og øll Sannchristenn Hiørtu 1 Tim. 4. v. 10.

Vonenn er ein af þremur Hofuddigdum, ad vitne þess sama Postula 1 Cor. 13. v. 13. Sa lifande Gud a Himnum,

 num,



num, er Grundvollur og Stadfesta lifande Vonar i Hiartanu. Skilldt var Adam sitt Rifbein af hvørju Kvinnann var bigd, þvi þad var af hans eigenn Lijkama, þo finn eg ei ad þvi hafe vered ofauked medann hann hafde þad, ei helldur hann hafe saknad þess nær hann miste þad. Enn þad er ødruvijse vared um **Vonena**; hun er so sem Mannsens **Footur**, ann hvørs hann fær ei staded edur geinged, sosem og Salomon samlijker henne þar vid Prov. 25. v. 29.

Þad er oss omissande ad hafa **Vonena**, bædi umm **Frelse og Verndan frá vondu**, sem og lijka umm **Hlut tekning i þvi gooda.** I Tillite til þess fyrra, er vort Hlaup i gegnum Heimenn, sem Skipsens Hlaup i Hafenu; Þad kastast hingad og þangad, fer stundum upp til Himensens, stundum nidur i Afgrunned Psal. 107. v. 26. Ef vier værum ann **Vonar**, mundum vier vera sosem **Skip ann Akkers**, hvørju hun eirnenn samlijkest Hebr. 6. v. 19. Þar Postulenn seger ad **vier hofum Vonena sem eitt fast og øruggt Akkere vorrar Saalar.**

Mannsens Dagar á Jørdunne eru **Strijdsdagar** Job. 14. v. 14. Vante hann **Vonena**, þá vantar hann eitt hid naudsynlegasta af þeim andlegu Herklædum; þvi amminner oss Paulus, ad taka uppá oss **Bryniu Truarennar og Hiaalm Vonarennar til hiaalprædes** 1 Thess. 5, 8. Spaamadurenn Sacharias Cap. 9. v. 12. samlijker oss vid **Fanga i Þessum Heime**, enn þo soddann eina, sem **Fangner**

eru

eru i Vonenne. Lofadur sie Gud; þo ad vier sieum hier þad Israels Born voru i Babilon, þa þaug satu þar vid Votnenn og grietu nær þaug endurmintust Sion Psalm. 137, v. 1. þa erum vier ecke faungner fyrer utann Frelses von. Vier hofum gooda Von umm vort Frelse hia Fødur Miskunsemdanna. Þo hann uppliuke ecke strax Hialpardyrunum efter þvi sem vier askvordum: Hann upplijkur þo samt Dyrum Vonarennar fyrer oss, ad vier midt i Þrautunum segium af Psal. 31, v. 25. vered Hrauster og Hugdiarfer, þier aller sem a Drottinn voned. Vier megum ei sijdur hafa Vonena um Hlutekning þess gooda. Eg sie ad Paulus Gal. 4. v. 1. samlijker oss omyndugum Bornum sem ei hofum enn nu feinged vorn Arf i Hond urnar, er vor Brooder Jesus hefur keipt oss med sijnu Bloode; Enn vier eigum Arfenn i Vonenne, þvi vier erum Hoolpner i Vonenne Rom. 8. v. 24. og megum under taka med Petre Postula af 1 Ep. 1, v. 3. 4. Blessadur sie Gud Fader Drottinns vors Jesu Christi sa eptir sinne mikellre miskun hefur endurgieted oss til Lifande Vonar. Enn þesse vor Von a ad setiast til þess Lifanda Guds, hun mætte annars Deija, so sem Job seiger um Hræsnarans Von Cap. 8. v. 13. ef hun være ei bigd a þeim Lifanda Gude 1 Tim. 6. v. 17. Pad er daud og topud Von sem sett er annadhvort a Dauda edur Daudlega Hlute.



Enn þad er su Øfluga Stitta vorrar Vonar ad Gud lifer Eilyflega og alltijd Psalm 48. v. 15. Hvors Miskunseme vijkur alldrei fra hanns Bernum og hanns Fridar Sattmaale skeikar ecke Es. 54. v. 10., ad vort Lijf og Saal gledur sig jafnann i þeim Lifanda Gude Psalm. 84. v. 3. og vora Saalu þirster efter þeim Lifanda Gude Psalm. 42. v. 3. Til hvörs vier kunnum ad hafa støduga Von, bæde umm Hiaalp og Forsion i þessu Lijfe, sem og umm eitt betra Lijf efter þetta, þegar Vier munum skoda hanns Auglit i Riettlæte, og mettast nær vier uppvöknum efter hanns Mynd Psal. 17. v. 15.

## Hai-Edla Hai-Æruverduge Herra Byskup!

Hvad skal eg margt tala fyrer Ydar Hai-Ehruverdigheitum umm þetta Efne, sem Ydur siaalfum er miklu betur kunnugt enn mier? Enn þad er ecke hier med mijn Meining, ad eg minste af medal Brædranna, sem siaalfur hefe Þorf og Begiæring ad setiast vid Ydar Fætur til ad lata mier undervijsa, vilie taka mier þang Frijheit, ad informera i nockru Ydar Hai-Ehruverdugheit, helldur skrifa eg þetta, einasta af þeirre Ordsøk, ad naulægt Tilstand leider mig þar til, þvi þad

er

er hid sama er eg aa þessum Sorgartijma villde vidkomendum til Huggunar i Minne leida.

Su Haa-Edla Velborna Fru, Ydar heitt Elskada Ekta Hiarta, nu i Gude Sæla og Blessada Hustru **Gudrijdur Gisladotter**, forþienade med øllum Riette þann Vitnesburd, ad Hun vonade aa þann Lifanda Gud allt fraa hennar Barndoome til Daudans, og hefur Vonenn, sem ecke lætur til Skammar verda Rom. 5. v. 5. ecke orded Henne ad eingu; helldur hefur sa lifande Gud sem Hun vonade aa, bored sijfellda ummhiggiu fyrer Henne i Lijfenu, kiærlega medtekid Hennar Saal i Daudanum, og gefed Henne efter Daudann Vonarennar Endalykt fyrer Guds og Lambsens Stoole. Hun hefur og teked sitt, daudlegt Afskeid fraa Ydar Haa-Ehruverdugheitum og øllum sijnum efterþreijande sorgande blessudum Børnum og Aastvinum i Vonenne til Lifanda Guds ad hann mune þessa sijna, af sier yfergefnu, ecke yfergefa nie fra þeim vijkia Jos. 1. v. 5. helldur miskunsamlega annast, þar til þeir niju og gledelegu Samfunder Hennar og þeirra verde aftur i Dijrdenne, hverra vier i Trunne væntum. Og so sem Pier sialfer, Haa-Ædla Herra! hafed ætijd vonad uppaa þann Lifanda Gud alla Ydar Lijfdaga, so sem sa Lifande Gud sialfur hefur audsyndt med allre sinne Adstod og Handleidslu vid Ydur allt hingad til, sosem hier efter verda mun; so hafed þier nu og eirnenn med þessare sonnu Huggunar-fullre

von



Von til þess Lifanda Guds, uppteked i christelegre Polenmæde, þann sorglega Adskilnad, frá Ydar heitt Elskada blessada Ekta-Hiarta, ad Þid sijdar meir munud aftur samausafnast i Guds Rijke, ann nockurs Adskilnadar þar efter. Sá daudlege Skilnadur Yckar tveggia Kiærleiks-fullra Ektahiartna, sem vorud eins og Paulus talar um sig og sijna Tilheirendur 2 Cor. 7. v. 3. Hvort i annars Hiarta til ad lifa og deya til samanns, var ad sønnu sár og grátlegur, enn hann mun aftur ad fullu uppriettast med þeim gledelega og Hátijdlega Samfunde i Guds Rijke, þegar Þid i Dijrdarennar Stande munud aftur samankoma, ecke ad sønnu til Eckta-Stands, helldur til Eingla-Stands, sem alldrei endast; Það er ecke alleinasta Ydar Von til þess Lifanda Guds, helldur stødug Fullvissa, ad Daudenn hefur ecke endad Hennar Lijf, helldur Hennar Daudlegleika; Þoott Þier nu sakned Hennar ur Ydar Skaute, þá er Hun sem ein Abrahams Dotter Hvijlulogd i Abrahams Skaut, og inngeingenn til oforgeingelegrar, offleckadrar og oo-umskiftelegrar Arfleifdar sem oss er geimd á Himnum 1 Pet. 1. v. 4. Þo Hun sie nu aflátenn ad vera hier Kvinna sijns Manns, þá er Hun þo Lambsens Hustru Apoc. 19. v. 8. Hun, sem hier var sijns Ekta-Manns Corona Prov. 12. v. 4. ber nu eina Coronu fyrer Gude, nefnelega Lijfsens Coronu, er Drottenn hefur lofad þeim trwu til Daudans Ap. 7. v. 10. Hun kann nu ei ad sønnu framar ad audsyna sig sinna Barna hiartelskande Moodur; samt er Hun nu siálf ein Dootter i

þeirre

þeirre niju Jerusalem, sem hier ad ofann er allra vor Mooder. Gal. 4. v. 26. Hennar stundlegt Lijf er endad, og ai sijns Lijfs Enda byriade Hun ad lifa ooendanlega.

Umm þessa Von, sem vier hofum til þess lifanda Guds, bæde umm vora frammlidnu, og oss, sem efterlifande þreyum, talade eg i stuttre, og einfalldre Lijk-Rædu, vid sijdurstu Utfør þeirrar Sælu og Blessudu Jesu Unnustu, Ydar Heitt-Elskada Ekta-Hiarta, hvoria eg hefe nu sijdann aftur hreint uppskrifad ai hier efterfylgiande Blad-Sijdur, og nu i diupustu Audmijkt dirfest ad offerera, og dedicera Ydar Hai-Æruverdugheitum, ecke i þeirre Meining, ad eg med henne leite mier Hroofs, og Lof-stijrs, (so sem og af henne siaulfre er audsied, þar hun er aun alls Fagur-gala i styttsta og einfalldasta Mauta giord) helldur hinns vegna, at hun var vid mitt sijdarsta Afskeid, under Ydar Hai-Æruverdugheita Haia Nafne af mier begiærd, hvoriu eg oomogulega villde edur kunne ad neita, vonande og veltreistande, ad so sem Ydar Hai-Æruverdugheit liedud henne naduga Aa-heyrslu nær eg hana talade, so munud Þier liai henne skrifadre naduga Augna-Sioon. Og so sem rijng Utlaut þeirra, sem eru vanefna, enn villdu giarnan haia Velgiorninga aisannast lauta, plaga ad handleidast af Kiærleikanum, so vitna eg til Guds er mig þecker, ad þvi er svo varid umm þessa mijna rijngu og audvyrdelegu Pappirs-Gaifu, ad henne fylger Kiærleikurinn, og so eirninn lijka þad besta, sem Kiærleikurinn fær megnad, nefnelega heitar Bæna-

 Oosker,



Dosker, hvørium eg vona, sai lifande Gud ai hvørn vier vonum, opne Veginn ad siinum Hai-Thron til naidugrar Vænheirslu.

Liоosanna Fader Jac. 1. v. 17. sem Ydur hefur sett til Liooss i siinu Huuse edur Sofnude 1 Tim. 3. v. 15. ad vera Lioos annara Liоosa hier i Skalhollts Stifte, hann liise Ydur og leidsegi hvervetna med siinu Naidar Liоose; Hann nære Ydar Liifs-Lioos og Lampa med Vidsmiore siins vidhalldande Kraptar, ad þad mætte enn nu morg Aar loga til þess blessunarfyllsta Alldurdooms. Sai Gud sem hefur kriint Ydur med so margfalldre Heidurs Coronu ai Rettlætesens Vege Prov. 16. v. 31. kriine Ydur ætiid med Millde og Myskun Psalm. 103. v. 4. þar til hann kriiner Ydur med Coronu Diirdarennar, sem Ydur er afsiides løgd 2 Tim. 4. v. 8. Drottinn blesse Ydur æ meir og meir, Ydur og Born Ydar Ps. 115. v. 14. Siaifur Drottenn Fridarens gefe Ydur Frid alla vega og med øllum Haittum 2 Tess. 3. v. 16.

Þess ooskar af Hiarta, sai forblifur med stærsta Høyagtelse og Veneration.

Ydar Hai-Æruverdugheita
og
Alls Ydar Hai-Edla Huuss
audimiukur Elskande Þienare
og
trur Fyrerbidiare til Drottens
Jon Þordarson.

Hruna
Dag 12ta Martii 1766.





# Bænenn fyrer Predikun.

**Naad sie med Ydur og Fridur af Gude vorum Fodur og Drottne vorum Jesu Christo! Gud Vonarennar fylle Ydur med ollum Fognude og Fride i Trunne, so ad þier hafed gnooglega Von fyrer Kraft Heilags Anda.**

O þu vollduge, dijrdarfulle þrij-eine Gud! Heilage Herra Gud! Heilage sterke Gud, Heilage lijknsame Lausnare! þu æfenlege Gud! Þu sem lætur Mennena i burtu deya, og seger: Komed aftur þier Mannanna Børn! Þu sem ert Herra Lijffsens og Daudans, og hefur Mannenum Takmark sett, yfer hvørt hann kann ecke ad komast; Vier daudlegar Manneskiur, sem vitum oss eiga þeim sijdasta Ovin eitt sinn ad mæta, so sem aller adrer lifande Menn, hvørium asett er einusinne ad deya, komum framm fyrer þitt H. Auglit a Stundu þessare, prijsande þijna Guddoomlega Naad og Goodgirne, ad þu hefur sparad oss so milldelega allt hingad til Dags, og þad midt i Syndunum ummlided oss til Ydrunar, og ecke latid þann ooviβa Dauda yfer oss falla ootilreidda. Þu kallar einn efter annann, fyrer Daudann, af vorum Selskap, til ad aminna oß umm vorn Daudlegleika, og uppvekia oss til ad raudstafa i Tijma vorum Huusum i þvi ad tilreida vorar Saaler, og bua oss christelega til vorrar Burt-farar. Þu hefur nu nijlega hedann kallad eina dijrmæta Saal fra hennar Lijkama til þijn, so sem vier høfum sied Merke til a þessum Dege. Eitt Edla Kvenn-val hefur þu fra oss teked, er so lenge hefur vered Ker þinnar Naadar, er þu siaulfur hafder tilbuid til Dijrdarennar, og hefur skined vor a medal, sem Soolinn þa hun uppgein-



gur i sinne Makt, i Geislum Kvennpriijdennar, og þeirra rettu Truarennar Aavarta. O! Drottenn! Þeir Heilogu verda burtsafnader, og vier hyggium þar ecke ad sem biriar. Nu af þessu Dæme þoo uppvakter, tokum vier ad kannast vid sialfa oss; Þar kemur vissulega innann skamms ad fyrer oss, ad vor Daudans Reisa skal eirninn gillda. Vier vilium þvi bua oss þar til i Tijma, ad ecke sieum vier varbuner þegar Kalled kemur; Og med þvi vier erum eckert aun þijn Drottenn, þa vorpum vier oss ad þijnum Miskunar Footum i dùpustu Audmijkt Saalar og Lijkama, og bidium þig, fyrer Jesu Pijnu og bloodugar Under: Drottenn! verkadu sialfur i oss sanna Tilreiding, bæde i lifanda Lijfe og a deyanda Degi. Gef ad vier kvitter vid þig, fyrer sanna Ydran, forum hedann i Fride, med hreinsudum og þvegnum Samvitskum i Jesu þijns Sonar Bloode af øllum daudlegum Verkum, og so hæfeleger ad inngaunga þa Himnesku Jerusalem, i hvoria eckert almennelegt edur oohreint maa innkoma. Gef oss so i Dag ad innræta i vor Hiørtu Daudans Endurminning, ad vier ætijd hier efter kynnum betur og betur ad hugleida, ad vier hliootum ad deya, so vier forsiaaler verdum; Uppa þad, vier, sem forsiaalar Jomfrur, hofum jafnan vora Lampa tilreidda a moote Brudgumans Komu, og ætijd støndum umgyrdter vorar Lendar, so sem truer þioonar, reidubuner a hvorre Stundu, ad uppleisa ur þessu Gesta-Herberge og inngaunga Brudkaups Sal eilijfrar Dijrdar Amen. **Fader vor** rc.

## Text. Apoc. Cap. XIV. v. 13.

**Og eg heirde Rødd af Himne segiande til mijn: Skrifa þu! Sæler eru þeir daudu, sem i Drottne deya, i fraa þessu; Sannar-**

lega

lega seger Andenn, ad þeir hvijle af þeirra Erfide, enn þeirra Verk fylgia þeim.

# Inngangurinn.

Hinn H. Johannes i þessare sinne somu Opinberanar Book, og hennar 12. Cap. 2. v. skijrer fra, ad hann hafe i einu Himen-teikne sied eina Kvinnu Soolunne ummskrijdda, og Tungled under Hennar Footum. Ad fyrer þessa Kvinnu eige sierdeiles ad skiliast, su Strijdande Guds Kyrkia, og ad Kyrkiunnar asigkomulag sie hier med afmalad er an efa efter flestra Meining; Enn so sem þesse Kvinna afmalar oss alla Guds Kyrkiu, og heila Søfnudenn yfer Hofud, eg meina þann oosijnelega, sem alleina er su sanna Kyrkia, so fylger þad a efter, ad hun er ein Figura sierhvorrar rett-truadrar Salar, sem er eirn sannur Limur þeirrar sonnu Kyrkiu. Þad var ein Kvinna er Johannes sa, ein frioofsom, edur þungud Kvinna, so sem sijdar stendur i Capitulanum, og þessvegna eirnenn ein Gift Kona sem atte Mann. Gud sialfur er Madur truadrar Salar: Hann, sa ed þig hefur giørdt, Hann er þinn Madur; Drottenn Zebaoth er Hanns Heite, segir Drottens Ande Es. 54. v. 5. Guds Sonur, sem hana hefur med sijnu Bloode endurleist, er hennar Brudgume og Festar-Madur, er gledur sig yfer truadre Sal, sem þa eirn Brudgume gledur sig yfer sinne Brudur. Es. 62. v. 5. H. Ande, sem hana hefur helgad, er hennar Festar- og Brudar-Gafa, þvi hun er innsiglud med H. Anda Fyrerheitesens, hvor ed er Pantur vorrar Arfleifdar. Eph. 1. v. 14. Sierhvor

 truud



truud Saal er Lambsens Ekta-Kvinna, er hann helldur Brudkaup med Apoc. 19. v. 7. enn er þoo ætijd Jomfru fyrer Gude Apoc. 14. v. 4. Hun er hanns Husfru, og þoo þar hiaa hanns Dootter Psalm. 45. v. 14. Hanns Syster Cant. 4. v. 9. og Hanns Mooder Matth. 12. v. 50., hvar af vier megum aalykta, ad Jesu Kiærleike til þeirra truudu Saalna er hinn meste og heitaste, og oss oobegrijpanlegur, i hvorium aller Kiærleikans Titlar og Troppur eru safnadar og inneluktar, sem annars geta ei so fullkomlega aatt heima i nockre Hioona-Sameining vor aa medal. Þesse Leindardoomur er stoor, enn eg segi af Christo og Sofnudenum. segir Postulen Eph. 5. v. 32. Kvinnann skiin af Mannsens Geislum: segir Ords-Kvidurenn; Og so er þad lijka hier, ad Johannes saa, ad Kvinnan var ummskrijdd med Soolunne. Hun var i lijkum Bunade sem Hennar Herra, hvors Andlit var sem Sool, og hanns Fætur sem Elld-Stoolpar. Apoc. 10. v. 1. Eg vil nu ei margt þar umm tala, ad Kyrkiann skiin i sijnum Kennurum, sem eru Lioos Heimsens. Matth. 5. v. 14. Hun skiin i sijnum Limum, i þeirra Truar-Lioose, sem lijser fyrer Monnum, hvar fyrer þeir eru Lioos i Drottne Eph. 5. v. 8. Enn Soolunne segist su Truada Saal ummskrijdd, þessvegna sierdeiles, ad hun hefur iklædst Christo fyrer Truna. Gal. 3. v 27. Þar er varla nockur Skopud Skepna til, sem vor Frelsare kunne lijklegar ad samlijkiast, enn Soolenn; Vier hofum ej utan eina Sool; So er Jesus eirn Gud, og eirn Medalgaungare mille Guds og Manna. 1 Tim. 2. v. 5. Soolenn er hrein og klaar; Jesus er hreirn, Heilagur, saklaus, oosleckadur, og Syndurunum

um fraſkilenn. Hebr. 7. v. 26. Soolenn lijſer oſs og ollum Heimenum; Jeſus upplijſer alla Menn komande i þennan Heim. Joh. 1. v. 9. og nefner ſig ſiaulfur Lioos Heimſens Joh. 8. v. 12. J Soolarlioosenu kann Madur beſt ad reiſa, ad hann villeſt ecke; Jeſus er Vegurenn, Sannleikurenn, og Lijfed. Joh. 14. v. 6. sem fyrer ſinn Anda leider oſs i allann Sannleik Joh. 16. v. 13. Soolenn vermer, endurnærer, upplijfgar, og frioofgar; Þad allt giører Jeſus andlega i Saulunne, Hann vermer vor Jiskolldu Hiortu med Jl ſiins Kiærleika 1 Joh. 4. v. 19. Hann endurnærer og ſvalar þeim erfidande og krømdu Samvitſkum. Matth. 11. v. 28. Hann uplijfgar oſs, og gefur oſs þad retta Lijf, i þvi hann lifer i oſs, og vier i honum. Gal. 2. v. 21. Hann frioofgar oſs med Vøkva og Saft ſinnar Naudar til alls goods Aavaxtar Joh. 15. v. 5.

Kvinnann var ummſkrijdd, edur klædd allt umm krijng med Soolunne; O hvad vel maa vor Frelſare ſamlijkiaſt dijrmætum Klædnade. Sieu Klædenn til Skiools; af Chriſto høfum vier Þak og Naudar-Skiool, moot vorum Syndum, og Nakleika. Apoc. 3. v. 18. Blod þeſsa Lijfſens Tres ſkijla oſs betur, enn Fijkiu-Tres Blødenn Adam fordum. Gen. 3. v. 7. Klædenn prijda Mannenn; Jeſus i ſinne Forþenuſtu, er Prijde Saalna vorra, at þær verda ſem Brudur er bijſt umm i ſijnu Skarte Eſ. 61. v. 10. Klædenn giora bæde ad ſkijla og verma; Þad hvorttveggia giører Jeſus oſs, ſem Hænann ſiinum Ungum under ſijnum Naudar Vængium. Matth. 23. v. 37. Og i

ſtuttu



skuttu Maale ad segia: Vier høfum af þessare Sool 1.) Eirn Klædnad til Riettlætes, eirn Skruda þveginn i Lambsens Bloode Apoc. 7. v. 14. J hvørium Klædum vors Brooðurs, sem er Frumgetningur ai medal margra Brædra, Rom 8. v. 29. vier medtøkum Bleßunena af hanns og vorum Fodur. Gen. 27. v. 27.

Af henne høfum vier 2.) Eitt Klæde til Helgunar, ad vier iklædunst þeim nija Manne, sem efter Gude er skapadur i Riettlæte og Heilagleika Sannleikans Eph. 4. v. 22. Su Saal, sem hefur iklædst Christo til Riettlætes, iklæder sig honum eirnen til Helgunar, vitande, at hann er oß af Gude giordur, bæde til Riettlætes og Helgunar 1 Cor. 1. v. 30.

Og siidar i ødru Liife, høfum vier af þessare bleßudu Sool 3.) Eirn eilijfann Dijrdar Klædnad þegar vier støndum fyrer Stoolnum og Lambenu iklædder siidum hvijtum Klædum Apoc. 7. v. 9. og skijnum þar sem Sool i Rijke vors Fodurs Matth. 13. v. 43.

Soolunne var Konann ummklædd, enn i annann Stad hafde hun Tungled under Footunum, edur so sem fyrer Foot-skør. Tungled er hin nedsta af Planetunum, og nærst Jordunne, miklum Oostødugleika og ummbreitingum underorped fyrer vorum Augum; Þad hefur ecke ætijd sama Form og Figuru fyrer oß, giører bæde ad vara og mijnka, er stundum heillt, stundum haulft, stundum lijted, stundum eckert. Heimur þesse med sijnum Jardneska Hiegooma er eingu lijkare, enn þeßare Planetu, sem ei hefur ætijd sama Form, helldur ummbreitest dags daglega. J Verolldenne hefur Madur stundum fullt Tungl af Lucku, snart ecke utann haulft, snart lijted,

liited, snart eckert; enn su truada Sal, hefur þetta under sijnum Footum, þad er: hun fester ecke Hiarta sitt þar vid. Guds Børn hafa ad sønnu sinn Stad og Stand aa medal þessara fallvølltu og umnbreitanlegu Hluta, Þaug eru ad sønnu i Heimenum, enn þoo ecke af Heimenum Joh. 15. v. 19. edur efter Heimenum Rom. 12. v. 2. helldur leita þaug med Huga og Hiarta, þeirra Hluta, sem þar uppe eru Col. 3. v. 2., hafa Hiartad aa Himnum hiaa Christo, þar sem þeirra Fesioodur er, Luc. 12. v. 34. og þaug eilijfu stadfóstu Giæde; Þaug keppast alleina efter þvi uppsetta Takmarke, og efter þvi Hnosse þeirrar Kollunar Guds, sem þar uppe er, i Christo Jesu; Phil. 3. v. 14. Efter þad Paulus var upprycktur i hinn þridia Himen, þaa mat hann þann Himen, er sumer giora sialfum sier hier aa Jordu, ecke utan Skada og Skarn, sem Menn ganga aa Philipph. 3. v. 8. og þannenn eru allar þær Saaler, sem hafa virkelegann Himnarijkes Forsmeck; Þær reikna allt þetta Jardneska, i Tilliite til Guds og Himensens, ecke utan Hiegoomans Hiegooma Pred. 1. v. 2.

Lijtum nu Þaunkum vorum til þeirrar Lijk-kistu, er vier hofum i Dag medhøndlad, til þess Edla Lijkama, sem þar inne hvijlest, sem i lifanda Lijfe var Mustere og Bustadur H. Anda, 1 Cor. 6. v. 19. til þeirrar dijrkeiptu Saalar, sem þar inne bioo, og nu er Sigre hroosande i Dijrdenne. Þesse Blessada, Edla Sions Dootter var, og er Þesse sama Kvinna, Soolunne iklædd og standande aa Tunglenu, (ecke sijdur enn hvør ønnur truud Saal). Hun var hier ein Kvinna i sijns Manns Skaute, so sem Ritningen kvedur ad Konunne Devt. 13. v. 6. Enn þad var meira, ad Hun var Kvinna i Guds Naadar Skaute; ein Kvinna, og þoo fyrer Gude ein Jomfru, vegna sinnar flecklausu Truar 2 Tim. 1. v. 5. Umm Hennar lijkamlegt Skart og Kvennbuning, er Hun hefur nu aflagt, tala eg ecke, enn þad var Hennar Einka-Buningur,

 ad



ad Hun var Soolunne ummskrijdd, ummvafinn og iklædd Jesu Forþenustu Rettlæte, sem þeim rietta Helgedags Kyrtle. Hun skartade fyrer Gude i tvijlitum, nefnelega: hvijtum og raudum Klædnade, so sem Hennar Brudgume er hvijtur, og raudur, aulitlegur framm yfer tiju þusunder Cant. 5. v. 10., nefnelega þeim Mottle, sem er i hanns Bloode fagur-raudlitadur, samt þeim hvijta Heilagleikans og Dygdanna Kyrtle, þar Hun frammleidde sitt Lijf i stilltum og hoogværum Anda, sem er miked kostulegur fyrer Gude, so sem þær H. Kvinnur prijddu sig fordum Daga, þær au Gud vonudu 1 Pet. 3. v. 4 5. bevijsande Guds Dijrkun fyrer þaug goodu Verk. Þesse Konungsens Dootter var nærsta dægeleg hid innra, hun var klædd med Gudvefiar Bordum, hun var i utstungnum Klædum til Kongsens leidd Ps. 45. v. 14. 15. Hun hafde ey ad sijdur Tungled under sijnum Footum, i þvi, ad Hun lijtels virdte þad jardneska hiau þvi Himneska, Hennar Saul var afvanenn, lijka sem sau, er afvanenn er sinne Moodur Psalm. 130. v. 2. og flude fauseingelegar Gyrnder Veralldarennar 2 Pet. 1. v. 4. Nu, ad aflogdum þessa Lijfs Kvenn-Klædnum, hefur Hennar Edla Lijkame sveipst eirnre Lijkskirtu; Hennar dijrmæta Saul er og afklædd Lijkamanum, enn hier vid hefur Hun eingu tapad, þvi Hun hafde i lifande Lijfe iklædst Heilogum Buninge, i hvorium Hun mun skarta ad eilijfu, framme fyrer Guds Velldes Stoole, nefnelega: Þeim hreinu og skijnande Lijnklædum, sem eru Riettlætingar Heilagra Apoc. 19. v. 8. Hun er nu i þeirre Sigre-hroosande Kyrkiu, ei sijdur enn hier i þeirre Strijdande, ummskrijdd

Soolunne,

Soolunne, og hefur Tungled under sijnum Footum, þvi Henne er nu brugded i gegnum Daudans Skugga inni eilijft Lioos ai Lande lifande Manna Ps. 27. v. 13. hvar Hun lioomar sem Sool, og badar i þvi fagra Soolskine Dijrdarennar, og Sælunnar, hvar Guds Dijrd upplijser Hana framar enn nockurt Soolarskin; hvar Hun og so **stendur ai Tunglenu**, þad er: foraktar og einkesvirder alla jardneska Mædu, Erfide, og Hiegooma, og hroosar Sigre yfer þvi øllu, efter þvi sem Johannes i upplesnum Texta utmailar Hennar, og allra framlidenna Gudsbarna eilijfann Gledehag, segiande: **Sæler eru þeir daudu, sem i Drottne deya, frai þvi nu, Jai, sannlega seger Andenn, ad þeir hvijlest af þeirra Erfide, enn þeirra Verk fylgia þeim.** Ut af hvørium dijrmætu Ordum, eg vil med færstu Ordum minnast ai **tvent**, nefnelega:

I.) Eina Aalyktan umm christenna Manna Dauda.

II.) Aalyktunarennar Grundvoll.

Efter þad eg hefe stuttlega aihrært Lijfs-Historiu Aagrip þessarar sælu Drottens Unnustu, efter Christelegre Sidvenin. Drotten blesse þetta Verk med Naid sijns Anda fyrer Jesum Christum. Amen.



# Lijfs-Historian.

## Ad Fædast, Lifa, og Deya,

Eru þrijr oolijkustu Hluter; enn þoo eru þeir øllu Mannlegu Kyne so sameigenleger, ad eingenn getur þau umm flued, so ad sialfur eingetenn eilijfur Guds Son, þegar hann took a sig manndoomlega Nautturu, vard ad Fædast, Lifa, og Deya; Og þoo þvi sie svo vared, ad aller Menn eige þetta i gegnum ganga, samt er hinn allra stærste Munur, hvornen allt þetta afgeingur. Fra Allda Ødle hefur þad vered halldenn hin mesta Prijde, ad vera komenn af Loflegu Forelldre, hvar uppa morg Dæme finna ma, so vel i H. Ritningu sem annarstadar: Enn hvørsu gott og heidarlegt sem þetta er, þa tekur þoo hitt þessu miked framm, sem er: ad Lifa. Hvad er kiærara og sætara enn Lijfed? Hvad er Æruverdugra, betra, og æskelegra, enn ad hafa lifad vel? þvi þa er Samvitskann good, ærlegt, og heidarlegt Nafn, Gagn og Nytsemd allra vidkomenda, og sierlegur Søknudur og Trege hia øllum goodum Mønnum sem sa Gudhrædde kynntest vid, hvar umm ma segiast, ad gott Lijf, og þvi fylgiande gott Rikte sie Gulle betra Prov. 22. v. 1. Og hvad umm þetta? So agiætt og æskelegt sem hvørttveggia þetta er, þa rijdur þoo mest edur allt a Daudanum, þvi þangad sem Eikenn fellur, þar liggur hun; Præd. 11. v. 3. Og so sem Manneskiann deyr, so kemur hun fyrer Doomenn; Lattum hana hafa allt til ad bera, Metusalems Lauglijfe, Samsons Sterkleika, Absalons Frijdleika, Salomonis Vijsdoom, Asaelis Fliootleika, Cræsi Rijkdoom; Þad verdur þoo ad eingu, ef þad prijdest ecke med goodu Lijferne, og endast med saluhialplegum Dauda, og i Sannleika finnst eckert betra

Hlut-

Slutskipte, enn ad deya riettlaatra Manna Dauda Num. 23. v. 10. Med ollu þessu var i fremsta Maata priidd su Haa-Edla og Velborna Fru Saal. Gudrijdur Gisla Dootter, so sem ollum er ad sonnu alkunnugt, enn Ydar Kiærleike kann þoo framar ad heira af eftersylgiande Lijfs-Historiu.

## I.) Hennar Lijfs Inngangur var soleides:

Hun vár fædd i þennann Heim ad Maafahlijd i Nes-hrepp innan Snæfellsness Sijslu, þaa seinustu Viku Goou, þaa Datum skrifadest 1707., enn skijrd aa Maanudagen i Goou-lok, sem bar uppaa þann 21. Martii; Og so sem Hun hlaut hier vid þad Hlutskipte, sem er ollum Hlutum betra, ad ver-da Guds Ooska-Barn, so hlotnadest Henne þaa og Nafn sinn-ar Fodur-Moodur, þess nafnfræga Goodkvendes Saal. Hustrur Gudrijdar Þordar Dottur, og med þvi gooda Nafne, sem lenge hefur Nafnenu fylgt, og farsællt vered, allar þær Dygder sem Nafnenu og Ættenne fylgt hafa.

Hennar Fader var saa Gøfuge, Gudhrædde og Vellær-de Hofdings-Mann Gisle Saal. Jonsson, sem fyrst bioo ad Reykhoolum, siidann ad Maafahlijd. Hanns Fader var Mag. Jon Vigfusson Biskup yfer Hoola-Stifte. Hanns Fader Vigfus havde Studerad vid Kaupenhafnar Haa-Skoola so vel, ad Hann var aa þeim Olld-um kalladur hinn lærdaste Madur, so Hann for þienade Skoola-Meistara Embætte i baadum Landsens Skoolum, fyrst hier ad Skaal-hollte, og sijdann ad Hoolum, og so miked Nafn hafde Hanns Lærdoomur Honum afrekad, ad Hann oovijgdur Ma-dur, sem ei hafde enn þioonad Prests-Embætte, var i Bis-kups-Kiorenu 1631. enn skømmu þar efter vard Hann Sijslu-Madur bæde i Aarness- og Raangaarvalla Sijslum.

 Enn



Enn Mooder Mag. Jons Vigfussonar var Katrin, Dootter Erlends Asmundssonar at Hvole; Enn Mooder Katrinar var Solvör Dootter Stephans Prests ad Odda, Sonar Gisla Jonssonar Biskups i Skaal-Hollte. Fader Vigfusa Gislasonar var sa nafnfræge Høfdinge Gisle Hakonarson Log-Madur Sunnann og Austann, samt umm nockra Stund Sijslu-Madur i adurnefndum Sijslum. Kona Gisla Log-Manns, enn Mooder Vigfusa var Helga, Dootter Sr. Jons Krakssonar Prests ad Gørdum at Aalfta-Nese, Halfs-Brooders Hr. Gudbrands Biskups Thorlakssonar. Enn Fader Gisla Log-Manns var Hakon Sijslu-Madur i Raangaar-Thijnge. Hanns Kona var Thorbiorg Dootter Vigfusa Thorsteinssonar og Onnu Ejolfs Doottur, Einarssonar, Ejolfssonar Log-Manns; Enn Mooder Onnu var Helga, Dootter Jons Biskups Arasonar.

Fader Hakonar, var Arne Gislason ættsælaste og Nafnfrægaste Madur, ei einasta i sinne Tijd, helldur og eirnen sijdar. Enn Kona Arna Gislasonar var Gudrun Dootter Sæmundar Eirijkssonar, og Gudrijdar Vigfus Doottur ad Hlijdarenda. Mooder Gisla Sal. Jonssonar var Sal. Fru Gudrijdur Thordar Dootter, hvorrar Fader var sa Nafnfræge lærde Madur Sra Thordur Jonsson Prestur j Hijtardal og lenge Profastur yfer ollu Thveraar-Thijnge. Mooder Sal. Hustrur Gudrijdar Thordar Doottur var Helga Dootter Arna Log-Manns, Oddssonar Bisskups ad Skaal-hollte.

Kvinna

Kvinna Arna Oddssonar var Þordijs Dootter Jons Boonda ai Holltastødum; Enn Mooder Arna var Helga, Dootter Jons Boonda, Biornssonar Prests ad Melstad, Profasts, Officialis, og umm Stund Aaboota ad Þijngeyrum, Jonssonar Biskups, Arasonar. Enn Mooder Sra Þordar Jonssonar var Gudrijdur Dootter Gisla Løg-Manns, Þordarsonar og so Løg-Manns; Enn Mooder Gudrijdar var Ingebiorg Dootter Arna Gislasonar ai Hlijdarenda.

Mooder Saal. Frur Gudrijdar Gisla Doottur var Margret Dootter Magnusar Jonssonar, Løg-Manns Nordann og Vestann, samt Sijslu-Manns i Snæfellsnes- og Stranda-Sijslum. Hanns Fader var Jon Boonde, sem fyrst bioo ai Reykhoolum, enn siidann ai Midhusum. Fader Jons var Magnus Sijslu-Madur ai Vestfiordum, Sonur Ara, er yfer 50 Aar bioo i Øgre vid Jisafiørd, og var Sijslu-Madur i Jisafiardar- og Stranda-Sijslum. Fader Ara var Magnus, Sijslu-Madur fyrst i Nordur-Sijslu, og sijdann ai Vestfiordum, Sonur Jons Boonda ai Svalbarde, Magnussonar, Þorkellssonar Prests, Gudbiartssonar. Mooder Ara Magnussonar var Ragneidur Dootter Eggerts Løg-Manns, Hirdstioora hier ai Lande, og Riddara, Sonar Hannesar Eggertssonar og so Riddara. Enn Mooder Eggerts Løg-Manns var Gudrun, Dootter þes Nafnfræga Biörns Gudnasonar i Øgre.

Kona



Kona Ara Magnussonar var Christin Dootter Gudbrands Biskups ai Hoolum, og Gudrunar Arna Doottur frai Hlijdarenda. Kona Jons Magnussonar var Joorun Dootter Magnusar Løg-Manns og Sijslu-Manns i Skagafyrde, samt Mukaþverair-Klaustur Halldara. Fader þessa velnefnda Løg-Manns var Biorn Benedictsson Klaustur-Halldare ai Mukaþverai, og Sijslu-Madur i Eyafyrde. Enn Moder Magnusar Løg-Manns var Elin Dootter Pals Sijslu-Manns i Stranda-Sijslu, sem bioo lengstum ai Stadar-hoole, hvørs Kvinna var Helga, Dootter Ara Løg-Manns, Jonssonar, og Haldoru Þorleifs Doottur frai Mødruvøllum. Mooder Margretar Sal. Magnuss Doottur var Gudrun Dootter Þorgils Boonda ai Vøllum, Jonssonar Nefndar-Manns i Þorness-Þijnge, hvørs Ekta-kona var Ragneidur Gisla Dootter Syster Biorns Gislasonar i Bæ i Borgarfyrde; Gisle var Nefndar-Madur i Þorness-Þijnge, enn Hanns Fader var Prestur ad Hrafnagile, og nockurn Tiima Officialis. Þesse Sr. Biorn var Gislason, Brooder Arna ai Hlijdarenda, og Gunnars Gislasonar.

Allar Þessar Ætter mai laungtum lengra rekia til hinna Gøfugustu Manna, sem i Lande voru vered hafa, enn Tijmans vegna læt eg þad i þetta sinn hiaaliijda.

## II.) Hennar Lijferne frammleiddest soleides:

Varla Misseres gomul miste Hun sijna Sælu Moodur; og foor Hun þai ai foostur ad Stadarstad til sijns aistkiæra Fod-

ur-

dur-Broodurs Saal. Profastsens Sr. Pordar Jons-sonar, sem Hana elskade eingu siidur enn siin eigenn Born; Enn a siinu auttunda Alldurs Aare miste Hun sinn Sæla Fodur, og a hinu þrettanda sinn aastkiæra Fodur-Broodur velnefndann Profastenn Sr. Pord, med hvors efterlifande Eckiu Saal. Margretu Sæmunds Doottur Hun foor fra Stadarstad Ao. 1722. til Maafahlijdar i Neshrepp, og dvalde i Hennar Huse til þess Gud kallade Hana Ao. 1725.; Enn umm Vored 1726. foor Hun til Vistar ad Stadarfelle til sinnar aastkiæru Stiup-Moodur Dygdumpriiddrar Hofdings Kvinnu Saal. Katrinar Biorns Doottur, hvor Hana elskade, so sem Hun hefde vered Hennar Einka-Dootter. Par dvalde Hun, og uppoolst i ollu goodu, þar til 1733. ad undanteknu haalfu odru Aare, sem Hun var a Stoora-Nupe hier i Aarness Siislu, fyrst hia sinne Saal. Fodur-Systur Haa-Edla og Velbornu Fru Saal. Sigriide Jons Doottur, enn siidann siinum Elskulegum Broodur, þaaverande Land-Piingskrifara, enn nu Amt-Manne yfer Islande Haa-Edla og Velbyrdugum Hr. Magnuse Gislasyni. Aa Hennar 26ta Alldurs Aare, sem var 1733. þoknadest Gude ad innleida Hana i H. Hioonaband med þaaverande Profaste i Borgarfiardar Siislu og Preste ad Reykhollte, enn nu Biskupe þessa Stiftes Haa-Edla Haa-Ehruverdugum Hr. Finne Jons-syne, hvort hann a allann Haatt blessade, medal annars med 6 Bornum, 4 Sonum og 2 Dætrum, sem oll eru a Liife, 4 hier nu naalæg, enn 2 Syner vid Kaupenhafnar Academie.

Aa Peirra 5ta Hioonabands Aare, sem var 1738, kiennde Hun fyrst siins þunga Veikleika, sem Hun bar i 28 Aar, og Hana umm siider leidde til Grafarennar, sem var Mæde og Brioost-Erfide, sem stundum þreyngde so ad Henne, ad Hun maatte oft laangsamlega vid Sængena hallda, sierdeiles

 1743.



1743. og 1746, sem og lijka 1756., þoo riette Drottenn Hana jafnoodt vid aftur, sparande Hennar Lijf og Krapta, þo þeir opt fyrer Manna-Sioonum miøg veiker væru, so Hun var ødru hvoriu at Footum allt til sijns særla Vidskilnadar;

Hvad Hennar Personulegu Aasigkomulage vidvijkur, þat var Hun ecke alleinasta hid mesta Good-Kvende, prijdd med øllum kvennlegum Dygdum og Mann-kostum, sem Hennar Ætt og Hata Stande vel soomde, helldur munu þad og flester jatta mega, ad i flestu goodu hafe faat sijna Maka aatt. J Lijfernes Hattunum var Hun Gudhrædd, Hoogvær, Lijtelaat, vinsamleg vid alla, Orlaat og Goodgierdasøm vid þurfande, so Hun liet varla nockurn syniande frat sier fara; Og hvad meira er, ad Matenn og Adferdenn, sem Hun brukade til ad audsijna og frammkvæma soddann Dygder, var kryddud med soddan sierlegum og medfæddum Hræsneslausum Þægelegheitum, ad þaug sijnduft nærre þvi yfergaanga edur jafnast vid Dygdena Sialfa. Hennar Þolenmæde var so stoor og fullkomenn, ad i heil 28 Aar, at hvørium Hun bar oftlega stoorann Hita og Þunga Dagsens Matth. 20. v. 12. under þvi mikla Mootlæte, sem adur er ummgeted, heirdest skialldann til Hennar þungur Stunur, enn alldrei eitt einasta ooþolenmædes edur Møglunar Ord; Summa: Hier var aldeiles eingann rijkiande Løst ad finna, nie nockra Grein til hanns, helldur þar þvert at moote, Tru, Von, og Kiærleika, med ødru sem þar af er væntanlegt, og þad so freklega, sem at vorum Olldum er af nockru Guds Barne væntanlegt.

Sijnum Ekta-Manne var Hun hin elskulegasta og þægelegaste Make, hvar fyrer og so þeirra 33ia Aara Hioonaband var hid gledelegasta, og so sem ein sijfelld Brudkaups Hatijd.

Børnum sijnum ein hiartanleg, heitt-elskande Mooder, sem audsiatanlega bevijsast af þeirra ypparlegu Uppellde, og at þvi byggdu Frammferde, sem og hvørnen sierhvørt þeirra er efter Alldre og Gafum til Þroska og Manndooms komed;

Þvi





Þvi hinn elldste Hennar Sonur, Edla Velæruverdugur Sr. **Halldor Finnsson** er Doom-Kyrkiu Prestur hier ad Skaalhollte, efter þad hann hafde adur ulanlands attesterad. Tveir Hanns Brædur **Hannes** og **Steindor** eru enn nu vid Kaupenhafnar Academie sem adur er sagt, enn hinn fioorde ad Nafne **Jon** hier heima, Theologiæ Studiosus. Hennar elldre Dootter Mad. **Margret Finns Dootter** lifer i yndeslegu Hioonabande med Edla Velæruverdugum Profastenum Sr. **Jone Teitssyne** ad Gaulveriabæ; Enn hin yngre Jomfr. **Ragneidur** hier heima i Fødur-Garde, prijdelega mentud til allra kvennlegra Dygda og Lista, so sem einu ungu hairrar Ættar-Bloomstre vel sambijdur. Øll þesse Hennar blessud Born, so vel mentud, sijna Hennar gudrækelega Forsioon og Ummhyggiu fyrer þeim, og ad þaug hafe þa flecklausu Tru, sem med Henne bioo, aasamt Dygdunum, er af Trunne spretta, af Henne inndrucked, og efter Hana erft, fyrer Guds Naad, lijka so sem Timotheus efter sijna Moodur. 2 Tim. 1. v. 5. Hiwuuum var Hun hin naakvæmasta og vorkunsamlegasta Husmooder; Vid alla meire og minne, høfleg, þægeleg, vinsamleg og lijtelaat. Huss-Stioornarstanded, og þad þvi vidvijkur, þeckte Hun so vel og kunne med ad fara, so vijdt sem þvilijkum Kvenn-Manne vidkemur, ad jafnvel þaa Hun lengur enn skemur var sængurliggiande, gat Hun giort skijra Grein aa þvi øllu, þaa Hennar Þioonustu-Stulkur og Raadskonur þar umm vid Hana toludu hvar fyrer þær pløgudu og so Raadum Hennar ad fylgia, so sem þad være eitt Oraculum. Ydar Kiærleike tefst of lenge i þetta sinn ef eg fiølyrde hier umm framar, Þorfenn krefur þess ej helldur, þvi þetta er Ydur flestum alkunnugt.



## III. Hennar Lijfſens Utgangur

Vard, ſem vonlegt var, þvi ſialfu lijkur og aþeckur, þvi þar Hun var fyrer laungu daud Heimenum, og ſialfre ſier, ſo fullkonnadeſt þad a Henne, ſem Ande Drottens ſeger i vorum Texta Apoc. 14. v. 13. **Sæler eru þeir daudu, ſem i Drottne deya, fra þvi nu** ꝛc. Þad er adur ſagt, ad Hun hafe bareſt vid ſtoora Heilſuveike i 28 Aar, hvør, þoo ei være ſtraungare þeſſe tvø ſijduſtu Aar, ſem Hun lifde, helldurenn margoft ad undanfornu, eidde hun ſo Lijkamans Kroptum med margfalldre Þvijngun og Þiauingu, ad Hun hellt oftaſt vid Sængena, og vard miog ſkialldann ſo frijſk, ad Hun giæte i Kyrkiu komeſt, og verda þad þoo aller ad jata, ſem til Hennar þecktu, ad hvørttveggia var moote Hennar Gede, hafde og þar til ſierdeiles goodar Gaafur, þvi Gedſens og Lijkamans Lettleika fylgde ſierdeiles Alvørugefne i hvørium Hlut, ſem gioraſt ſkyllde, edur frammkvæmaſt. **Vard ſo Hennar ſijdaſte Vidſkilnadur a þennann Hatt:** Aa nærſtlidna Allra Heilagra-Meſſu medtook Hun Herrans Chriſti Lijkama og Blood i þvi Haverduga Alltareſens Sacramente, med hiartanlegre Andakt og veniulegum Gudrækneſteiknum, þreyde ſo anægd i Gude, med ſinne veniulegu Ooþreyſte oftaſt Sængurliggiande, fyrer utan ad Hun klæddeſt, ødru hvøriu, þa beſt og bliijdaſt Vedur var, ſeint a Dege, i hvørium Vanmætte Hun frammleidde Reſten ſijns Dygdafulla Lijfs allt til 21. Febr. ſem var Foſtudagurenn ſeinaſtur i Þorra. Þegar Hun umm Middegi klæddeſt og geck efter Sidveniu uppa Lofted, ſetteſt nidur og took ſier lijted Verk i Hønd, a hvøriu Hun hellt til þeſs byria ſkyllde veniulegann Huſs-Leſtur, þa lagde Hun þad fra ſier, ſat og hlijdde Leſtrenum med ſinne gudrækelegre Andakt; Nær nijbyriadur var ſa fyrre Pſalmur, ſem var þeſſe. **Foringiar Preſta fengu** ꝛc., feck Hun

lijted

lijted Uppkast, sem ollum naalægum sijndest rett natturlegt, efter þvi sem Hun hafde oft adur fengid, ad hvorin afstødnu, Hun took sier siaalf ad drecka af The-Konnu, hvoria Hun sette sijdan aftur a Borded; Enn þa byriad var þad 5. Psalmsens Vers: Jesus jatar ad Stundu &c.: hnie Hun aframm i Sessenum a Hønd sier, hvorre Hun studde under Kinn, hvad þegar nærstadder sau, komu til Hennar, og studdu Hana so vid, ad Hun sat uppe litla Stund, a medan Hun uppgaf sinn Anda i Guds Høndur, og i Drottne sætlega burt, sofnade, þegar Hun hafde lifad i þessum Heime 58 Aar, 11 Manude; J Hioonabande 33 Aar og 5 Manude.

Hun lifde stoor Elskare af Guds Orde, og Hun deyde under Guds Orda Heirn; Hun var Elskare af Christi Pijnu, og Hennar Hiarta var med Hanns Bloode i Trunne adreist, Hun andadest og þa sunged var umm Jesu Pijnu, med þann pijnda Jesum i Hiartanu og a Tungunne, og fyrer Eyrunum; Hun andadest medann sunged var umm Hennar Frelsara Setu til Hægre Handar Guds Kraptar, þvi hefur Hun i Andlatenu lijka sied þad, sem Hun þa talade og heirde umm, nefnelega med Stephano Himenen openn, og Jesum standa til Guds Hægre Handar. Act. 7. v. 55. O hvad da samlega, O hvad gledelega, og æskelega leider Drotten sijna Heilaga, Ps. 4. v. 4. ei alleinasta gegnumm Heimenn, helldur og eirnen ut af Heimenum inni Himenenn! Er þetta ecke ad deya Riettlatra Manna Dauda? Num 23. v. 10. Er þetta ecke ad sofna i Christo? 1 Cor. 15. v. 18. Lofadur sie Gud, sem med sinne Naad i Henne verkade, og Hana so gledelega leyste ur þessa Lijfs Armædu til sijns eilijfa Rijkes. Huggunarennar Gud hugsvale sorgande Hiarta Hennar Hiartkiæra efterþreyande Hat-Edla Ekta-Herra, samt ollum þeirra sartsyrgiande blessudum Bornum, Aastvinum og Naungum, og gefe þeim ollum ad finna i sijnu Miskunar Hiarta þa riettu

 Hiar-



Hiartans Glede og Aanægiu. Hann gefe oss øllum, sem efterlifum, ad lifa og deya i Drottne, og eilijfum Sigre ad hroosa, med þessare Jesu Christi Unnustu og øllum utvølldum i Dijrdenne.

Enn þetta, sem stuttlega hefur vered aahrært, umm Lijfs Inngaang, Lijfs Frammgaang og Lijfs Utgaang þessarar Haa-Edla Velbornu Saal Frur, sluttast med Æruríjku Þacklæte Hennar Haa-Edla efterþreyande Ekta-Herra, Hanns sorgande blessudu Barna og Maanga, til allra hier samankomenna, efter Aasigkomulage sierhvørs Stands og Verdugleika, er med sinne prijdelegu Nærveru Virding giørdt hafa Hennar sijdustu Utfør, samt ad Henne þioonad, edur i einhvern Maata hier Hlut hafa adaatt, med skylldugu Þienustu Frammbode, og alls-kyns Farsælldar og Blessunar Ooskum, ad su dijrmæta Postulans St. Pauls Aalyktunar-grein þryckest sem eitt Innsigle aa allra Ydar Hiortu i Lijfe og Dauda, nefnelega þesse:

**Naad vors Drottens Jesu Christi sie med ydur øllum.**

# Utleggingenn.

Daudenn giører Ummbreiting i voru Huse, enn einga Ummbreiting i Guds Hiarta, edur Hiartalage til vor; Þoo hann skilie oss vid Heimenn, og vora Vist og Veru i Heimenum, þaa kann hann þoo ecke ad skilia oss vid Himenenn, og þaa Vistarveru, sem vor Frelsare hefur oss tilbuid i sijns Fødurs Huse. Joh. 14. v. 2. Þoo hann giøre Ummbreiting aa voru Stande, þaa flitur han oss og færer til eins ædra og betra Stands enn aadur; Han sliettir oss ut af Book og Manntale Lifande Manna aa Jordunne fyrer Mønnum Ex. 32. v. 32. enn ecke ut af Lijfsens Book, og Utvalldra Tale aa Himnum hiaa Gude; Þeir

Utvølldu

Utvølldu eru skrifader ai Lijffens Book Lambsens Apoc. 21. v. 27. og af henne munu þeir alldrei utsliettast; Hvor hann yfervinnur, hann skal med hvijtum Klædum klæddur vera, og eg vil ecke utslietta hanns Nafn af Lijffens Book; seger Frelsarenn Apoc. 3. v. 5. Þesse Huggun verdur oss frammborenn i upplesnum Texta, og þeirre Rodd, sem Johannes heirde af Himne, i hvorre vier høfum, so sem eg fyrr lofadt, ad athuga

I. Eina Aalyktan umm Christenna Manna Dauda, og hanns Aasigkomulag, sem merkest af 2ur Eigenlegleikum 1) Ad hann er sæll. 2) Ad han er christelegur, sem hvorugt getur ain annars vered. 1) Er hann sæll: Sæler eru þeir daudu, heiter þad. Hier er fyrst geted umm hvadan og hvornen ad Johannes heirde þesse Ord, sem og lijka hvad hann skyllde vid þaug giora; Hann heirde þaug a) af himne. Þad er oss ein Stadfesta, ad þaug eru i allann Mata truverdug; Þaug heirdust ecke af Jordu, þetta var eingenn Manna-Mælge, sem oft hefur lijtenn Stad, helldur heirdust þaug af Himne, og frai Gude, sem bijr i Upphædunum Es. 57. v. 13. Þaug voru gudleg Openberan, sem forþenar, ad henne sie truad; heired þier Himnar, og þu Jord hlusta til, þviad Drottenn talar; Es. 1. v. 2. Þetta er ecke eirn Jardneskur, helldur himneskur Lærdoomur, ad þad heiter umm Hann, sem Paulus seger umm sijna Kenning 1 Cor. 11. v. 23. Eg medtook þad af Drottne, sem eg hefe ydur fenged.

Þesse Ord voru ecke alleinasta af Himne tølud, sem gudlegt Andsvar, helldur b) J eirne Rodd af Himne; Þaug voru ei tølud i Hlioode, helldur med hærre og hroop-

ande



ande Nødd, og þessvegna eirnenn miked markverdug; Þad er eitt Uppvakningar Teikn, ad tala hroopande; þad sem hroopad er med, skal merkiast og vel adgiætast; so befalar Gud siaulfur Ordsens Þenurum ad upphefia siina Raust Es. 58. v. 1. þvi þad þeir hafa ad segia, skal vel heirast og gaumgiæfast, so sem oomissande Mønnum ad vita. Johannes skyllde ei nidurfella þesse Ord og laata þaug gleimast, helldur skyllde hann c) skrifa þaug. Ad Hann heirde þaug, og visse þaug fyrer siaulfann sig, þad var ad sønnu hønum gott, enn samt oss ecke so miked þar med þent; Enn hønum var sagt: skrifa þu, so ad vier skylldum lijka fa ad vita þaug. Johannes medtook þaug af Gude, so sem Lijfsens og Daudans Reglu fyrer allda og ooborna. Gud er oss so goodur, ad hann hefur openberad oss i siinu skrifada Orde, þad sem Sæler vorar mega ei an vera; allt hvad skrifad er, þad er skrifad oss til Lærdooms, so ad vier fyrer Þolenmæde og Huggun Ritninganna hefdum Vonena Rom. 15. v. 4.; og ad sønnu eru þetta ein dijrmæt, og oss oomissande Ord sem minna oss a þa Von, sem vier høfum, og innehallda eina Huggun, er þeir truudu eiga fyrer siaulfa sig. Nu! hvad skyllde þa Johannes skrifa? þetta: Sæler eru þeir daudu. Hier er þad ypparsta lagt saman vid þad rijngasta; Hvad er betra enn Sælann, edur Saaluhiaulpenn? og hvad er sliettara enn ad deya? Saaluhiaulpenn er sa Dijrgripur, hvørn ad utvega oss, Jesus kom i Heimenn, 1 Tim. 1. v. 15. sveittest bloodugum Sveita, uppgaf sinn Anda; Til ad avinna hana, hafa Jesu Medkennendur ecke hallded sitt Lijf dijrmætt, Act. 20. v. 24. og ecke sparad sit Blood. Til ad eignast hana, eru aller Jesu sanner Læresveinar reidubuner til ad taka daglega uppa sig sinn Kross, og fylgia Christo efter,

Matth.

Matth. 10. v. 38. ad þeir mættu gainga inni Guds Rijke, jafnvel fyrer margar Hormungar, Act. 14. v. 22. Hun er eirn so rar Gimsteirn, ad þær følnu Manneskiur fai henne ecke naid, nema fyrer Jesu guddoomlegt Blood. Act. 20. v. 28. og þeir følnu Einglar alldrei, og ecke fyrer Jesu Blood, þvi hann took ei ai sig Einglana. Heb. 2. v. 16. Og þvi skyllde Sælan ecke vera miked dijrmæt? þar Gud sialfur tekur sier Nafn af henne, ad hann heiter hinn sæle Gud 1 Tim. 6. v. 15. og hefur fyrerbued hana þeim, sem hann elska. 1. Cor. 2. v. 9. Enn ai hvørium skartar þai þeße so dijrmæt Perla? Være þad ai þeim lifande, skyllde ei sijnast undarlegt, enn Johannes seger þad seu þeir daudu, sem hana skulu bera; Sæler eru þeir Daudu. Hier eru ecke einasta nefnd Sælukiør þeirra sem i Drottne deya, helldur og Kenneteikn þeirra i lifanda Lijfe, sem er, ad þeir seu dauder, aidurenn þeir deya i Drottne, og ad i þvi þeir sieu dauder, þa sieu þeir sæler. Ecke seger hier, þeir verda skule sæler hier efter, þoott þad fylge vijst efterai, helldur ad jafnvel ai medann þeir sieu dauder, og aidur enn þeir deye i Drottne siidann, sieu þeir sæler, þvi er hier Tvent ad hugleida 1) Hverier þeßer daudu sieu. 2) Hvernig þeir sæler eru i þvi þeir dauder eru aidur enn þeir deya i Drottne. 1) Þegar Raustenn af Himne nefner hier tvisvar dauda, i so fain Ordum, skal eingenn meina ad þad sie Oþarfa-Ordafiølde af H. Anda, edur ad hann tale hier i sama hvad efter annad umm Natturlegann Dauda, helldur er Meiningenn, ad þeir einer sieu sæler, sem deye i Drottne, efter þad þeir hafe aidur vered dauder. Geta þeir þai daued tvisvar? Ecke natturlegum Dauda, eins og þeir Lijklega daued hafa, sem af Christo og Postulunum voru af Dauda upvakter,

 er,



er, umm hveria hier er ecke Talsmaal. Enn þar er til Tvennslags Daudi, hverium Menn kunna ad deya aamedann Menn lifa, og aadur enn Menn deya naatturlegum Dauda, sem er Adskilnadur Saalar og Lijkama. Saa fyrre kann ad heita lifande Daude: Hinn sijdare Deyande Lijf. Ens fyrra getur Paulus þar hann seger. 1 Tim. 5, 6. Ad su Eckia sem i Vellyst life, sie lifande daud. Soddann lifande Daude er andlegur Daude þeirra Vantruudu, i hverium þeir missa Guds Naad, og þad Lijf, sem er i Gude Eph. 4. og eru so dauder i þeirra yfertrodslum og Syndum, dauder i Trunne, Kiærleikanum, og øllum goodum Verkum. Laat þaa lifa uppaa hinn hærsta Mood i Metordum, Rijkdome, og Vellystingum, og eingenn gete taled þeim Tru umm annad, enn þeir life vel, og þeim lijde vel, þeir eiga aller einn Vitnesburd med Einglenum i Sardes, Apoc. 3, 1. Þu hefur þad Nafn ad þu lifer, enn ert Daudur. Þeir eru lijker þeim sem dauder hafa fundest, med opnum Augum, raudum Kinnum og Vørum; enn þad duger ecke þegar saa lifande Gud, sem ransakar Hiørtun og Nijrun, finnur þaa holldlega, hafande eingan Anda, og eckert Lijf i þeim, sem sier er lijkt; Jaa, eckert utann lifande Dauda; Þad seger sig sialft, ad þesser Daudu kunna ecke ad deya i Drottne, aa medann þeir eru þannig; þvi hvernig kann saa ad deya i Drottne, sem lifer utann hiaa Drottne? Hvernig getur saa sloppeð til Sælu hanns i Daudanum, sem sleppt hefur Naad hanns i Lijfenu? Þaa er seint ad innplanta sig Vijntrenu Christo, hafe Madur alldrei fyrre enn þaa viliad laata planta sig med honum til lijks Dauda, eda loda og lifa i hønum: Helldur eiga þaa þesser lifandi daudu Saalufelag med Saul Konunge 1 Chron. 11, 13. So deyde Saul i sijnum Misgiorningum: og med Phariseis, til hverra vor Herra sagde, Joh. 8. 21. Eg fer burt, og þier munud deya i

ydar





ydar Syndum, Þess vegna: **I Drottne ef villtu deya, Drottne þa lifdu hier:** Þvi þad duger ecke ad segia: Eg ætla ad verda sæll, og deya i Drottne, enn draga Syndena med mier ad Grøfenne. Lat þvi ecke Syndena fylgia þier til Daudans, so hun verde ecke þinn sijdaste Ovinur. Soddann lifande Dauda kann ecke farsæll Daude i Drottne efter ad fylgia, helldur einn **Deyanda Lijfe**, þvi sæler eru þeir **Daudu, sem i Drottne Deya. Deyande Lijf** kann hier ad hugleidast med 3u Moote. 1. Fyrer daglega Daudans Hættu, i hverre einn er staddur, sem ecke sier annad enn Daudann daglega fyrer Augunum, eins og Paulus, er hann innann og utann Borga, a Sioo og Lande, medal Gydinga og Heidingia, ja, lijka medal falskra Brædra, var i Lijfshaska, hvar fyrer hann sagde 1 Cor. 15, 30. 31. Hier fyrer støndum Vier og hvern Tijma i Haska, **Egdey daglega** fyrer þa Hroosan vora, sem eg hefe i Christo Jesu Drottne Vorum. Soddann Daude i lifanda Lijfe, er bæde Kenneteikn og Undannfare saluhialplegs Dauda i Drottne, med so mote menn giøre sem Jesus baud Læresveinunum Luc. 21, 19. er han hafde sagt þeim fyrer, þeir munde afsalast af Frændum og Vinum, Forelldrum og Børnum og nockrer af þeim mundu lijflatner verda, og þeir munde verda hatader af øllum fyrer sijns Nafns saker: **Eignest ydar Saaler i Þolennmæde:** Hier eiga heima Asaphs Ord Psam. 73. **Þooad Lijf mitt og Saal vanmegnest, þa ertu Gud mitt Hiartans Traust og Hlutskifte.** Item Pauls. Rom. 8, 9. 10. **Efad Christur og hans Ande byr i ydur, þa er Lijkamenn daudur** (þad er, Daudanum underorpenn) **enn Anden er Lijfed fyrer Riettlætesens saker.** 2. Fyrer dagleganu Underbuning Daudans; Þegar Guds

 Børn



Børn gleima þvi alldrei ad þau bera efter ſier Lijkama þeſsa Dauda, og af ſijfelldre Daudans Ummþeinkingu telia ſijna Daga Pſ. 90, 12. og þeckia þeir ſieu Pverhandar Breidd Pſal. 39, 6. ſierdeles þegar Sinkdoomurenn lætur þeirra ytre Mann fordiarfaſt, ſo þaug verda daglega aulijka ſem afhendt Daudanum, og Daudenn verdur ſo ſmaamſamann kroptugur i þeim 2 Cor. 4, 11. 12. 16. Þeßer eru ſem deyande, þoo menn ſiaee þau lifa; 2 Cor. 6, 9. Eda þegar Alldurdoomurenn med Lijkverendum ſijnum, er flijta hønum til Grafarennar, og nefnder eru Pred. 12, 1. ꝛc. þegar hann, ſege eg, kemur hønum til ad undertaka med Jacob Forfødur Gen. 27, 2. Eg er ordenn gamall og veit ecke nær eg ſkal deya, og med enum gamla Paule Phil. 1, 23. Eg gyrneſt ad leyſaſt hiedann og vera med Chriſto. Item med Semeone, Nu laatu, Drottenn! Pioon þinn i Fride fara. O! hvad er þau nær, þegar Æfennar Sool naalægeſt ſijna Nidurgaungu, og Lioosed Lijfſens tekur til ad utbrenna, enn ad hyxa til Grafarennar, ſijns Huſs, og til Sængur ſinnar, ſem uppreidd er i Myrkrenu? Job. 17, 13. Soddann Hauſkans Lijf, ſoddann Daudans Ummþeinkingar Lijf kann nu med rettu ad heita eitt Deyande Lijf, enn einkum og ſierdeiles 3. Deyande Lijf þeirra Daudu audur enn þeir deya i Drottne. Hvørra Daudu? Eru þeir þau dauder audur enn þeir deya i Drottne? Jau, ad vijſu; Þvi eingenn deyr i Drottne, nema ſau ſem daenn er audur; Þad er aller þeir, ſem vilia deya i Drottne, þeir verda audur ad verda dauer andlegum Dauda Rett-truadra; Hann er Naudarverkan H. Anda i eirne rett-truadre Saalu, fyrer hveria hun daglega deyr frau Syndenne, ſem bijr i hennar Hollde, fra Heimenum, ſem bæde er i henne, þad er, Gyrnd Holldſens, Fyſn Augnanna og

dramb

drambſamt Lijſterne; 1 Joh. 2, 16. Og fyrer utann hana, ſo hun elſkar ecke Heimenn nie neitt þad, i Heimenum er, þvi hun veit, ad ef nockur elſkar Heimenn, i honum er ecke Kiærleike Fodurſens; og ad Heimſens Vinatta er Gudz Oovinatta Jac. 4, 4. Þau bera Kroſsenn Chriſti, fyrer hvern Heimurenn er þeim kroſsfeſtur og þau Heimenum Gal. 6, 14. Umm þennann Dauda talar Paulus 2 Cor. 4, 10. Aavallt ber eg Dauda Drottens vors Jeſu ummkring i mijnum Lijkama, uppaþ þad, ad Drottens Jeſu Lijf mege openbereſt i mijnu daudlegu Hollde, og Rom 6, 2. 8. 11. ad vera daudur fra Syndenne; daudur med Chriſto, enn lifa Gude i Drottne vorum Jeſu Chriſto. Item Col. 3, 3. Þier erud dauder og ydar Lijf er foolged med Chriſto i Gude; Med honum vitnar Petur. 1 Pet. 2, 24. Þad ſie ad vera daudur fraa Syndenne og lifa Rettlætenu. Soddann Daude Retttruadra i Lijfenu heiter Daude, af þvi ad Hollded er aulijka ſem daudt fraa þvi ad frammfylgia Gyrndunum, þviad Andenn hefur ſigrad þad, nidurþaggad þad, helldur þvi i Taume, ſo menn giora ecke þad menn vilia efter Natturunne Gal. 5, 17. Enn hvar ſem þeſse Holldſens Deyding er, þar er Lijf Chriſti og hanns Anda, ad vitne Pauls, 2 Cor, 15. Einn er fyrer alla daenn, Þaa eru þeir og aller dauder; Og hann deyde fyrer alla, ad þeir ſem lifa, ſkyldu ecke lifa ſialfum ſier, helldur honum, ſem fyrer þaa er daenn og uppriſenn. Þad er eins i þeſsu ſem fyrer Abraam og Saru: Þau fengu ecke geted Iſaac, fyrr enn þeirra Lijf og Lijkamer voru dauder, ſeger Pall Rom. 4, 19. So lifnar ei Chriſtus i Manne fyrr enn Hollded

 er



er daudt: Skule Christus koma til sinnar Foosturjardar, bad er i truads Manns Hiarta, þai hlijtur Herodes ad vera daudur audur, og hinn gamle Adam ad deya burt fraa Christo, so Madur segia kunne med Pauli Gal. 2. v. 20. **Eg life nu ecke, helldur lifer Christus i mier:** Þvi eingenn fær uppriſed andlega med Christo, þad er, orded ny Skepna, nema sai sem grefradur er med hønum til Daudans Rom. 6. v. 4. Þoo er þeſs ecke Von, ad Hollded deye til fulls fyrr enn efter þad Menn eru daaner i Drottne. Sai gamle Adam er so lijfſeigur, jafnvel i Hollde Endurfæddra, ad þoo menn bruke og beite vid hann øllum andlegum Vopnum Herfarar sinnar, **Sverde Andans, Hiaalme Hiaalpræðeſens og Skillde Truarennar**, Eph. 6, 16. 17. Þai geta menn ei til fulls hønum i hel komed, helldur enn Paull, er faun þad vonda vid sig loda, og giorde þad vonda, sem hann vilde ecke Rom. 7. Enn þoo heiter, og er þeſse gamle Madur Daudur, þegar hann liggur, sem faungenn og fiøtradur under Herradæme Andans, lijka sem einn Madur, er liggur fiøtradur ai høndum og footum, og er þar fyrer atorkulaus, hann er sagdur liggia sem daudur, þoott hann renne Augunum, hreife Tungu, Vørum, og drage Andann, og soſem Act. 20, 9. 10. seger umm Evtychum, hann hafe dotted nidur af Loftenu og vered daudur upptekenn, enn Pall sagde ad hanns Sail være i hønum, so heiter hann, og er daudur, sem deyder fyrer Andann Hollds ens Gyrnder, og lifer so Gude i Drottne vorum Jesu Christo, jafnvel þoott hinn gamle Madur sie i hønum. Og þeſser eru þeir **Daudu, sem i Drottne deya.** So er þai oomiſsande ad deya þannig aadur enn menn ætlast til ad deya i Drottne: Þeſs vegna þoott hinn gamle Adam Leite lijfs og Grida, eins og þeir 10. Menn sem fundu Jsmael ai Akrenum; sogdu, **drep þu oſs ecke, þvi vier eigum Fieſiood i Akrenum** (Meiningen var, til ad

kaupa

kaupa med Lijf vort) Jer. 41, 8. Pa skylde eingenn voga ad lata þann lifa sem Gud hefur boded ad deyda, so hann hende ecke sama sem Saul, þegar hann sveikst umm ad høggva i sundur Agag Amalechita Konung, þa vard hann þess vegna utrekenn frai Rijkenu 1 Sam. 15.

Athuge fylger sai þessu Maile, ad ecke deya þeir aller i Drottne, sem dainer synast fra Syndenne; og ecke kunna þeir aller ad lofa sier sælum Dauda i Drottne, sem dauder þikiast frai Holldsens Verkum, þvi er Naudsyn ad rannsaka hvørt Madur er daudur frai Holldsens Verkum af Naidinne eda Naitturunne; Þvi sosem þeir eru ecke aller dauder, sem synast dauder, so eru þeir ecke aller dauder Andlegum Dauda Guds Barna, sem ecke eru openberer ad daudlegum Syndum. Þeir sem af Guds Anda leidder verda, þeir eru Guds Born Rom. 8. v. 14. Og einger adrer: Og þvi sagde eg aidann, ad Andlegur Daude Guds Barna være Naidarverkun H. Anda i einne retttruadre Sailu; fyrer hveria hun verdur frelsud frai Syndenne, og verdur Guds Þioonustu madur, hafande sinn aivøxt til Helgunar, enn ad Endalokunum eilijft Lijf Rom. 6, 22. Enn nockrer liggia sosem i daie frai Syndarennar Ydkun, ain þess Guds Ande stioorne þeim: Til dæmes; einn stelur ecke, af þvi hann nær eingu, annar hoorast ecke, af þvi hann ottast Fiemissu, Last og Vanvyrdu, þridie fremur ecke ofait eda ofdryckiu, af þvi han hefur einga Lyst þar til, ecke Efne, eda hann tijmer ecke ad eyda sijnu. Hver kann ad kalla þessa Aavexte Andans, þoo þeir syneft vera lijker þeim? Og fyrst þad eru ecke aivexter Andans, þai getur þad ecke vered annad enn Holldsens Sinne, sem er Daude, og Fiandskapur i gegn Gude Rom. 6. Þad er ecke Guds Ande, sem helldur þeim i þessu Daie, helldur Naitturann, Hollded, og Samvitskann, sem Gud hefur innplantad i alla Menn, jafnvel Heidingiana og þai Ogudlegustu; soad þegar Hollded hefur



fur uppegnt þar til Manndraups, Ofrijkes, Hefndar 2c. þar hefur Samvitskann sagt þeim: Giører þu þetta, so hrepper þu Hefnd og Oolucku, og spiller Giæfu þinne, þvi er og midur, ad margur Christenn dregst af þessum Natturunnar, enn ecke Naidarennar Taum! og er þetta Kirrlæte frar Syndenne, ecke af Strijde mille Holldsens og Andans, helldur af Strijde mille Holldsens og Natturunnar Skynseme, sem veit ad sier mune hier fyrer illa lijda. Þessu Holldsens Sinne, þessum andlegum Dauda i Syndenne, fylger ecke efter Daude i Drottne, helldur eilijfur Daude og Utkastan frar Guds Auglite; Enn andlegur Daude Guds Barna frar Syndenne hefur bæde

2. Sælu i sier; Þvi Sæler eru þeir Daudu, og Lijka Sælu epterar sig, þvi þaug deya i Drottne. jar! Þeir eru sæler allareidu, adur enn þeir deya i Drottne. Nu vill holldleg Skynseme spyria, sem ecke skilur þar Hlute, sem Guds Anda eru 1 Cor. 2, 14. Hvada Sæla er i þvi ad deya daglega? Daudenn er beiskur og hardur Kostur, og þeir daudu vita eckert, og þeir hafa eingenn Laun framar Pred. 9, 5. Andsvar: Jeg kann ecke ad kalla þann dauda sælann fyrer þad þoo hann sie frelsadur frar illu, nema hann og hafe ødlast aftur Gott. Ecke einasta þad fyrra, helldur og þad sijdara gladde Paul i Bonenne umm farsæl Afelok, þegar hann sagde. 2 Tim. 4, 18. Drottenn mun frija mig frar ollu illu, og frelsa mig til sijns himneska Rijkes. Nu sosem Saler Þeirra sem deya i Drottne eru bæde fullkomlega frelsadar frar øllu illu, og nioota alls goods hiar Gude; þær snerter ecke einasta eingenn Pijna, helldur og eru i Hende Drottens, So er og Sæla su sem Guds Børn hafa i sijnu Deijanda Lijfe, Frijun frar illu og Frelsun til Goods. Satt er þad, ad Krossfesting Holldsens med Gyrndum og Tilhneigingum, og Deyding þeirra jardnesku Syndarennar Lima, er ein Krossfesting og

Deyding,

Deyding, sem i fyrstu ecke geingur af med blijdu, helldur med strijdu, ecke med Glede, helldur med Sorg, eins og ein Typtan, sem logd er ai Hollded Ebr. 12, 11. Enn hvør sem yferuegar þad Illa, ednr Oluckn þai, tijmanlega og andlega, sem Syndarennar Prælar dragast med, hønum skulu vyrdast sællre Kior Guds Vina enn þeirra. Heimsens Børn eru under Reide Guds, sem er yfer øllum þeim, sem illa giora, Rom. 2. frai hverre Guds Børn frijud eru, þvi þaug eru under Naidenne. Rom. 6, 14. Hin eru Prælar Syndarennar, og hafa þann Alavørt, sem þaug skammast sijn af; Rom. 6, 21. enn Gudz Børn eru frelsud frai Syndenne, og skammast sijn ecke ad koma til Liooſsens: Joh. 3. Hin eru under Bølvan Løgmaalsens, þesse eru frai henne endurleyst fyrer Christum. Hin eru under Diofulsens Vallde, af þvi hann er þeirra Gud og Herra; þesse standa i moote Dioflenum, þess vegna flijr hann fyrer þeim Jac. 4, 7. Hin fremia Syndena med Otta og illre Samvitsku; og hiai þeim hefur Ottenn Kvøl, 1 Joh. 4. Þesse hafa Rettlæte, Frid, og Glede i H. Anda, og hafa ecke medteked Prældooms Anda til Otta, so þaug þurfe ad ugga umm sig. Hin kunna alldrei glod adlifa edur deya, þesse eru viss umm, ad life þaug, þai lifa þaug Drottne, deye þau, þai deya þaug Drottne, so hvørt sem þaug lifa eda deya, þai eru þaug Drottens. Frai þessu og þvilijku ollu illu eru Guds Børn, sem daud eru frai Syndenne, frelsud ai þai einu Sijdu, Enn ai adra Sijdu hafa þaug aftur allt gott. Þaug lifa i Sameiningu med Gude, og Gud i þeim, og i Gude hafa þaug, jafnvel hier i Heime, sitt sæla Himnarijke, og hirda þai hvorke umm Himen nie iord. Þau þeckia sinn Endurlausnara, og hallda sig ecke annad ad vita, og þad er þeirra eilijfa Lijf. Joh. 17. Þau hallda hønum, og sleppa hønum ecke, fyrer allt hvad þeim bijdst i Heimenum, Enn hvør sem hefur Sonenn, sai hefur Lijfed 1 Joh. 5, 12. Þau finna hann ad vera sitt Lijfsens Braud og Lijfsens Vatn af Himnum komed, i Hungre og Þorsta, sijna Huggun i Freistingunum, sinn Talsmann 1 Joh. 2, 2.



2, 2. hiá Gude moote Løgmaalsens Aaklogunum, sitt Rettlæte moote Syndenne, sijna Lækning i Soottenne, sitt Lioos i Mirkrenu, sit Lijf i Daudanum. Þaug hafa Vitnesburd H. Anda, ad þaug sieu Guds Børn, þvi taka þaug med Glede moote Aga Drottens, af þvi þaug vita hann elskar sig Ebr. 12, 5. Apoc. 3, 19. Hvernig sem þeim lijdur, lijkar þeim vel sitt Stand, so þaug segia med David Ps. 4, 8. **Þu gledur mitt Hiarta o Gud! þegar adrer hafa miked Vijn og Korn, eg ligg, og sef alldeiles med Fride:** Þaug ydka sig i þvi ad hafa hvervetna gooda Samvitsku fyrer Gude og Mønnum, og hun er þeim daglegt Gestabod.

Þessa Sælu i Gude og goodre Samvisku vilia þau ei missa fyrer alla Sælu Heimsens, sem ecke er von. Þvi hvada Sælu hafa Heimsens Børn i allra sine Sælu? Einga sem ecke sie blønduð med Oofarsæld. Þvi fyrer utann þeirra Oofarsælann Dauda, er øll þeirra Sæla Hiegoome, Eimd og Mæda, efter Mosis, Syrachs og Salomonis Ordum. Vilier þu biooda Saalu þinne til Bords i Sæluhuse þessa Heims, og segia til hennar: Et og dreck Saala mijn og vert glød! Þá svarar hun þier innan skamms; eg er mett og þreytt, mig vantar meira, þetta gledur mig hvørke vel nie lenge. Þu maatt siingia hvar þu villt, hvenær þu villt, yfer hveriu þu villt: Sæll er sá Madur sem þetta hefur. þad skal þoo alldrei satt reynast, helldur hitt: **Sæll er sá Madur, hvørs Gud ad Drottenn er** Ps. 33, 12. og þad midt i þvi hann er voladur, sorgande, hungradur og þyrstur efter Rettlætenu, ofsooktur Rettlætesens vegna, lastadur og ordskemdur fyrer Christi Saker Matt. 5. So eru þá Guds Børn sæl midt i Oofarsældenne, fyrer Giæsku Guds Psalm. 36, 8. 9. O Gud! hvad dijrmæt er Þin Giæska, ad Mannanna Børn vona under Skugga Vængia þinna, þau verda druckenn af Nægtum þijns Huss, og þu drykiar þau med Vellyst. Þau hafa Himnarijke hid innra

hiá

hiai sier, og Gud hiai sier i þessu sijnu Himnarike, þvi hann bijr hiai þeim sem hafa sundurknosad Hiarta Es. 57, 15. og þetta er ein virkeleg Sæla. Sæler eru þeir daudu sem i Drottne deya uppfrai þessu: So hefur þai eingenn Orsok ad undrast yfer þvi ad þesser Daudu eru Sælir: Þvi bæde hefur Gud sagt þad i himneskri Raust, sem er truanleg, hann kann og ad giøra meir enn vier kunnum ad bidia og skilia: Hann er so goodur Vinum sijnum, ad hann lætur þai hvørke i ollu nie alltijd bauat eiga, þvi hann lætur Lioosed upprenna fyrer þeim i Myrkrenu Ps. 112, 4. Jai hann er sialfur þeirra Lioos nær þeir sitia i Myrkrenu Mich. 7, 8. so, þoott margar aungursemder sieu i þeirra Hiarta, þai gledia þoo hanns Hugganer þeirra Saal. Ps. 94, 19.

Daudenn er sai sijdaste Oovinur 1 Cor. 15. v. 26. sem oss yferfellur sijdast, og rædst ai oss efter alla adra Oovine, er vier høfum haft hier vid ad beriast; Hann liggur sem i Laumsaatre til vors sijdasta, og rædur þai ai oss ain allrar Mootstødu; Hann er Lijfsens Oovinur og Eydeleggiare, Misser allra Eigna, og Ender allrar Glede i Heimenum, ad vier høfum eckert Hlutskipte framar i ollu þvi sem er under Soolunne. Hann endar Lijfed, og allt þess Vidmagthelde, sem Guds Skepnur þvi tilleggia; Eingenn hefur enn nu so fast staded, ad hann hafe ei maatt ofanstijga i þann Daudans Skugga Dal Ps. 23, v. 4. Þad sijdasta i eins Manns Lijfsøgu er ætijd þetta: Hann deyde Gen. 5. v. 4. Kvinnunnar sio Menn, og ad sijdustu Hun sialf deyde Matth. 22. v. 27. Lioosed er ad sonnu inndælt, og þad er Augunum lijstelegt ad siai Soolena, enn jafnvel þoo Madur lifde morg Aar, og være gladur ai þeim ollum, þai mai hann þoo þeinkia til þeirra myrkvu Daga, seger Salomon Pred. 11. 8. þad er: Hann mai auhykta, ad Daud-

 enn



enn allyfte allt. Daudenn er Eirn Rannsmadur, sem ræner Lijkamann sinne Hræring og Aalite, Salena sijnum Bustad, og Lijkamans Bustad sijnum Husbonda, hann adskilur tvo þa bestu Vine, sem Gud hefur so naakvæmlega samteingt, Sal og Lijkama; Hann adskilur Born og Forelldra; Hann er sa stoore Hioonabands Riufare, sem tekur fra mannenum Konuna, hanns Augna Lijst. Ezech. 24. v. 16. og fra Konunne Mannenn, sem er hennar Hofuds Korona Thren. 5. v. 16.; Hann klædfletter oss, sem Ræninge og giører vorn Lijkama illa luktande, Joh. 11, v. 39. er so nidur sættst i Forgengelegleika, Veikleika og Vansemd, 1 Cor. 15. v. 44. Hvørnen kann þa Sælan ad tilleggiast þeim sem eru dauder, sem vita eckert, og finna til einkes? Ein Blockskyniar ecke hvorsu fagurt Hlioodfære sem spilad er; Þoo heilum Vijnstraum se uthellt yfer eirn Stein, hefur hann þess eingen Not; Hann tekur eingre Forlysting, þoo hann være lagdur midt i eina Paradis a medal þeirra fegurstu Bloomstra. Enn lætum oss inngannga Guds Helgedoom, og athuga Søkena rett, og þa munum vier finna ad þeir daudu bera þenna Sælutitel med betra Rette enn þeir lifande, bæde ad þvi leite sem snerter Sal og Lijkama; Ef athugum vier lijkamlega Sælu þeirra lifendu, edur þad sem menn kalla Sælu, þa er hun ætijd oostødug, alldrei oomengud, helldur blondud med Sorg; Þegar Lijfed er sem kostulegast, þa er þad ecke utan Hrigd og Armæda Ps. 90. v. 10. Þeir sem bera Koronu og Purpura, eru almennelega sæler reiknader, enn þeirra Sæla er mest i annara Þaunkum; Eitt krynt hofud finnur sijna Koronu vega heillt Centener, ecke sijdur enn Koronu Ammons Barna Kongs, sem sett var a Davids Høfud 2 Sam. 12. v. 30. vegna Embættes Þungans, sem giører þær flestum Ooberande, ad margur Fatækur, ef hann rett þeckte sijna Lucku mætte kannskie reikna sig langtum sælle; Enn allijtum þad Andlega! Vier megum

ad

ad sønnu nefna þa lifendu rett-trundu sæla ad vera, enn þoo alleinasta sæla i Von Rom. 8. v. 24. Enu þeir daudu hafa Sæluna til Eignar; Þeir hafa i Eignarhallde þad, sem þeir lifendu vona efter; Þeir hafa i vißu, sem hiner hafa i Vænting, Þeir framlidnu eru komner til Takmarksens, hiner hlaupa a Skeidenu. Daudenn kann ecke ad giøra þa oohentuga til þessa Titels; Vier vitum ad allur Madurenn deyr ecke, nockud deyr, nockud lifer; Daudenn uppsvelger ecke allann Mannenn; Hann deyr efter Lijkamanum, hann lifer efter Saalunne, og þad Herfang, sem Daudenn hefur fengid i Lijkomum vorum, mun hann a sijnum Tijma fra sier gefa hliota; Jordenn mun skila þeim daudu: seger Ande Drottens Es. 26, v. 19. Ap. 20. v. 13. So sem Gud let sinn Heilaga ecke Rotnan sia og efterskillde ecke hans Saal i Grøfenne Ps. 16. v. 10. so mun hann ecke forlaata vora Lime i Grøfenne, helldur er Daudenn oss eirn Guds Þenare til ad nidurbriota þad forgengelega, ad Gud fai uppbyggt þad ooforgengelega, og til ad ummturna þessare Tialldbud, so ur hennar Rofum verdeønnur uppreist, sem eilijflega blijfur. Ad þeir daudu skulu upprijsa, þad hefur Moses audsijnt hia Þirne-Runnenum, þar hann kallar Gud, Abrahams, Isaacs og Jacobs Gud, enn Gud er ecke Gud daudra, helldur lifande Manna, þvi þeir lifa honum aller, seger Jesus Luc. 20, v. 38. Daudenn giorer miklu framar þa frammlidnu hentuga til Sælunnar: Þa sem Skynsemenn reiknar illa farna, þeir eru velfarner; Vier skulum aalijta þad vonda, sem þeir frelsast fra, og þad gooda, sem þeir aftur medtaka. Daudenn giorer Enda a allre Synd og Sorg: Þegar eg sa þær Þreingingar, sem skie under Soolunne, þa prijsade eg þa daudu framm yfer þa lifendu, seger Salomon Pred. 4. v. 2. og Cap. 7. v. 2. seger hann, ad Daudans Dagur sie

 betre



betre enn Fædingar Dagurenn. Þeir frammlidnu hafa ei Mædu framar af nockru vondu, þai hvorke hungrar ne þyrster og Lambed mun leida þai til lifande Vatnsbrunna Apoc. 7. v. 17. Þeir hafa engan Brest ai nockru goodu, þvi þeir munu mettast nær þeir uppvakna efter Guds Mynd Ps. 7. v. 17. þai þeir eru burt sofnadar fyrer Daudann, þai uppvakna þeir hier til.

Þessvegna mai Sælan tilreiknast christenna Manna Dauda med øllum Rette; Þetta er þad Takmark, til hvørs vier eigum ad keppast; Þetta er þad Hnoss, sai Krantz, og Corona, sem vier eigum til ad vinna, og efter ad strijda. Phil. 3. v. 14. 1 Cor. v. 24. Þetta Tillit hafde Faderen vid oss med Sendingu sijns Sonar i Heimenn; Hingad sigtade Christur vid oss med sijnum Dauda, hingad lijtur Andans Samkvæme, og ønnur Raad, ad þad megi ad sijdustu heita umm oss: Sæler eru þeir daudu, og þegar vier høfum þad, so høfum vier noog, meir enn Augad hefur sied, Eyrad hefur heirdt, og Hiartad hefur griped 1 Cor. 2. v. 9. Gud gaf Salomoni eitt rumt Hiarta, vegna þess mikla Vijsdooms, sem Gud hafde gefed Hønum i hanns Hiarta 1 Reg. 10. v. 24. efter hvørium hanns Hiarta gat miked griped; Enn vort Hiarta er allt of þraungt til ad grijpa hvad þetta Ord innehelldur: Sæler eru þeir daudu. J Sælunne er Lijf ann Dauda, þvi Daudenn mun þai ei vera framar Apoc. 21. v. 4. og þad daudlega er þai uppsvelgt af þvi oodaudlega 1 Cor. 15. v. 54. J Sælunne er Dagur fyrer utan Noott, þvi Gud og Lambed er þar siallfur vort Lioos Apoc. 21. v. 54. v. 23. J Sælunne er Glede ann Hørmunga, Eylijfd fyrer utan

utan Enda; J Sælunne er Gud sialfur allt i øllu 1 Cor. 15. v. 28. Gyrnest nockur Metord og Vyrdingar, þar er **eitt Rijke Utvolldum fyrerbued** Matth. 25. v. 34. Gyrnest nockur Sællijfe og Vellist, þar eru **Straumar Vellistinganna** Ps. 36. v. 9. Vilie hann Frijdleika og Fegurd, þar munu þeir Utvølldu verda Einglunum lijker Luc. 20. v. 36; hafe madur Þocknan a Skraute og Skarte, þar erum vier i klæddder **hvijtum Skruda med Palmavid i vorum Hondum** Apoc. 7. v. 9. Æske madur sier Speke og Vijsdooms, þa yfergengur þad alla Vitsku, ad **siai Gud Auglite til Auglites** 1 Cor. 13. v. 12. og **þeckia so sem vier erum þeckter** ibid. Eg vil sijna þer allt mitt gooda: sagde Drottenn fordum til Mosen Ex. 33. v. 19. Enn i eilijfre Sælu og Saluhialp mun Gud virkelega sijna oss allt sitt hid gooda, og ecke alleinasta sijna, helldur og lata os medtaka og reina. Vier megum siai, ad Gud hefur þad besta handa oss þegar vier erum frammlidner; Vier komum ecke til Sælu og Saluhialp ar nema fyrer Daudann; Þetta daudlega Lijf er eirn milleveggur ai mille Guds og vor, ai mille vorrar Speigels Sioonar og hanns Andlites Skodunar, so sem Jordan var ai millum Jsrael og Canaan; Korned verdur ecke lifande, nie ber Aavøxt utan þad deye 1 Cor 15. v. 36., og so er þai Daudenn oss eirn Aabate Phil. 1. v. 21. Þessa Huggun kann eirn Christenn Madur ad setia moot øllum natturlegum og holldlegum Kvijda ai moote Daudanum. Jsraels Syner mattu ferdast umm eina Eydemørk til þess fyrerheitna Lands; so vier eirnen i gegnum Daudann til vorrar Himnesku Arfleifdar. Skillde nockur efter sier telia ad lata skera sijn Kaun, ad hann nai ad verda heilbrygdur. Sai sem vill ferdast Landa ai medal, hlijtur adur yfer Hafed ad sigla; so vier eirnen i gegnum Daudans Bylgiur til Sæluhafnar lifande Manna. Þegar sai sijdaste Doomur



ur er luckulega sigradur, þa er øllu vel aflokeð, so er þa þetta hinn fyrre Eigenlegleike Gudsbarna Dauda, að hann er sæll: Enn hann er lijka. 2) Christelegur, þvi þaug deya i Drottne: Sæler eru þeir dauðu sem i Drottne deya, stendur hier. Þetta getur ecke fra hinu skilest, þvi engen deyr saluhialplega, nema hann deye i Drottne. Pijslarvottarner doou fyrer Drottenn, og vegna hanns Nafns Vidurkenningar; Aller sannchristner deya i Drottne, þvi, þeir sofna i Christo 1 Cor. 15. v. 18. Þeir nefnast þeir dauðu i Christo 1 Tess. 4. v. 16. og fyrst munu upprijsa. Ecke eru þeir aller sæler sem deya, helldur þeir alleinasta, sem deya i Drottne. Oogudleger sædast, lifa, og deya i Synd, og þeirra Synder, eru yfer Børnum þeirra, nær þeir eru rotner i Grøfenne Ex. 20. v. 5. ef þaug ganga a þeirra syndugum Vegum; Þeir deya so sem Fiskarner i Ægyptalands Vøtnum i Bloode Ex. 7. v. 18. edur i bloodugum Syndum, edur so sem Pharao i Sioonum Ex. 14. v. 28. Að deya er almennelegt, það er Vegur alls Hollds Joh. 23. v. 14. Enn að deya i Drottne, það er Heiløgum alleinasta eigenlegt; Þeirra Dauðe er dijrmætur fyrer Drottens Augum Ps. 116. v. 15. þeir eru Guds Viner bæde lifande og dauder: Lazarus Vinur vor sefur, seger Jesus Joh. 11. v. 11. Þetta er sa rettlatra Manna Dauðe sem vier megum oss aller ooska Num. 23. v. 10. og ecke alleinasta ooska eins og Bileam, helldur alvarlega efterkeppast og uppaversida betur enn hann giørde; Vier megum lifa Rettlatra Manna Lijfe, ef vier kioosum að deya rettlatra Manna Dauda; Vier megum aðdur fyrer framm deya með Christo Rom. 6. v. 8. ef vier vilium deya i Christo; Vier megum deya fra Heimenum og Syndenne, fyrr enn vier deyum fra Lijkamanum; þvi sa sem vill deya þeim Dauda vel, hvar með Salen skilst fra Lijkamanum, ma aðdur deya þeim Dauda, hvar með Salen skilst fra Syndenne:

enne; Synden mä deya i Sälenne og fra Sälenne, so Sälenn mege lifa Gude. Þetta er sä heilage Daude sem Ritningen minner oss so oft á; Þier erud deydder fra Syndenne Rom. 6. v. 11. Þier erud dauder, og ydvart Lijf er foolged med Christo i Gude Col. 3. v. 3. Þad er ein Upprisa af Syndarennar Dauda Eph. 5. v. 14. Vakna þu upp sem sefur og rijs upp af Dauda. Þad giora þeir trwudu, þvi deya þeir i Drottne. 1) Hvonær sem þad skedur, hvert i Ungdoome edur Elle, á Noottu edur Degi, i Voku edur Svefne, þvi Gud hefur ecke sett oss til Reide, helldur til ad eignast Sälu-hiälpena fyrer Jesum Christum, sä fyrer oss er däinn, so hvort vier vokum edur þofum, þä skulum vier ásamt med honum lifa 1 Tess. 5, v. 9. 10. Þeir eru ætijd reisuferduger; Þeir deya i Drottne. 2) Hvornenn, edur uppä hvern Mäta þad skedur, hvert sem þeir sälast á Koddanum eins og Jacob. Gen. 49. v. 32. edur med Stephano under Steinum Act. 7. v. 60. hvert sem Barsillai med hnignudum Burdum 2 Sam. 19. v. 35. edur eins og Moses med fullum Kroptum Devt. 34. v. 7. Þessvegna hrædast þeir trwudu Daudann alls eckert, þeir vita sig alltijd vera Drottens, hvort sem þeir lifa edur deya Rom. 14. v. 8. Þeir rettchristnu vita ad álijta sinn Dauda rett, og hvor sem er i þeirra Tölu skal ey álijta Daudann i sinne eigenn Natturu, þvi sie hann so álitenn, þä er hann fyrer Mannsens Augum sem Goliath var fyrer Israel 1 Sam. 17. v. 11. og Kongur Skelfingarennar Job. 18. edur so sem eirn heidenn Spekingur nefner hann: Þad hrædelegasta af ollu hrædelegu. Ecke helldur i sinne Verkan, so sem hann

 tilreider

 

tilreider Manneskiuna, giører Lijkamann vidbioodslegann, og Vinena sorgande Gen. 50. v. 1. Ecke i sijnum Uppruna, ad hann er i Heimenn komenn vegna Syndarennar Rom. 5. v. 12. þvi aller doou i Adam 1 Cor. 15. v. 22. Ecke helldur efter Logmalenu, þar hann efter Guds Rettlætes Doome er ordenn Syndarennar Verdlaun Rom. 6. v. 23., so þoo vort Hollð gefest ecke Himensens Fuglum edur Hrædijrum Jardar, so sem Asaph talar umm Lijkame Guds Þioonustu Manna Ps. 79, v. 2. þai mun þad þoo gefast Jardarennar Ormum Job. 17. v. 14. Helldur skulu Guds Born aulijta Daudann. 1) J Drottne, nefnelega i Jesu Christo, sem hefur ummbreitt honum, og hanns Brodd og Forgift burttekeð 1 Cor. 15. v. 57. og hann i Sigur uppsvelgt Es. 25. v. 8. og ordenn er Daudanum ein Olifian. Hos. 13. v. 14. Hann hefur fyrer sinn Kross kastad þvi sæta Tre i þau beisku Daudans Votn, Ex. 15. v. 25. ad vier megum segia med betra Rette enn Agag Amalechita Konungur, ad **Daudans Beiskleike sie burtdrifenn** 1 Sam. 15. v. 32. þvi so seger hann siaulfur Joh. 11. v. 25. **Eg er Upprisann og Lijfed, hvor hann truer a mig, skal lifa þoo hann deye; og hvør sem lifer og truer a mig, hann skal ecke deya eilijflega.** Hann hefur med sijns Ords Manna umbreitt þeim beisku Jurtum Daudans i Katlenum 2 Reg. 4. v. 41. þvi so seger hann Joh. 8. v. 51. **sannlega, sannlega sege eg ydur, ef nockur er sa, sem helldur mijn Ord, hann mun ej sia Daudann ad eilijfu.** Þad geck Daudanum þegar hann greip efter Christo, so sem þad geck Kong Jeroboam þegar hann greip efter Spamannenum, ad **hanns Hond visnade** 1 Reg. 13. v. 4. Hanns Magt ma nu lijkiast vid sundurbrotenn Boga þeirra sterku 1 Sam. 2. v. 4. og hanns Broddur vid þa sliofgudu

Odda

Odda ai Israels Verkfærum 1 Sam. 13. v. 21. Poo hann hafe aidur vered hardur Sendebode, 1 Reg. 14. v. 6. þaa er hann nu ordenn oss eirn gledelegur Guds Sendebode, umm hvern vier kunnum ad segia sem Rebecca umm Eleasar: **Eg vil fara med honum** Gen. 24. v. 58. Poo þad sie hanns Nattura i siaulfre sier, ad ummspenna oss med Daudans Bøndum, so sem David yferkvartar Ps. 18. v. 5. Pai er nu so komed, ad hann leyser oss af Syndanna, Sorganna, og Eymdanna Bøndum, Jai, hann bindur uppumm oss med Glede Ps. 30. v. 12. og giorer, ad vier innbindunst i Bindene lifendra 1 Sam. 25. v. 29. Eirn rettchristenn Madur skal ecke i sijnu Lijfe og Dauda aulijtast so sem einstakur Limur lifande og deyande i siaulfum sier, helldur so sem eirn Limur under Hofdenu Christo, og so sem eirn groodursettur Kvistur ai Vijntrenu Christo. Joh. 15. v. 1. **Eg life og þier skulud lifa**, seger hann Joh. 14. v. 19. Vort Samfielag med Christo er vor Huggun i Daudanum, ei alleina su kroptugasta, helldur og eirnen su einasta: Par er eingenn Fordæming ai þeim sem eru i Christo Jesu Rom. 8. v. 1. Aller siai Daudans Verkun i Uppleysing Saalarennar frai Lijkamanum; Pad giorer Daudann hrædelegann naatturlegum Manne, enn þeir Heiløgu finna framar til Sameiningar sinnar med Christo, sem ecke raskast edur slitnar i Daudanum. Sai naatturlegi Madur mai sorga, enn sai Christne mai glediast. Ad Jacob sai Joseph, giorde hann viliugann ad deya, ad han sagde: **giarnan vil eg nu deya, fyrst ad eg hefe sed þitt andlit** Gen. 46. v. 30. Enn hvad hughraustare mun þai ein retttruud Saal vera ai moote Daudanum, sem sier sinn Jesum i Andanum, og er ordenn eitt med hønum, þad kenner Simeon oss med sijnu Dæme, er sagde nær hann sai Jesum, og feck hann i Faunged: **Drottenn! lat nu þinn Þenara fara i Fride!** Luc. 2. v. 29.



Jacobs Saal hieck vid Benjamins Saal, Gen. 44. v. 30. ad hann orvænte sier Lijfs ef hann miste hann. **Vier erum eirn Ande med Drottne** 1 Cor. 6. v. 17. Daudenn kann ecke ad skilia oss frä Guds Kiærleika i Christo Jesu Rom. 8. v. 38. Deßvegna giorer Esaias adgreining a mille daudra og Drottens däudra: **Þijner daudu munu lifa**, seger hann Es. 26. v. 19. þvi þeir eru Christi Medersingiar, og Heilagra Samborgarar Eph. 2. v. 19. sem hvorke lifa ne deya siaalfum sier, helldur lifa og deya Drottne, hvert helldur þeir lifa edur deya. Rom. 14. v. 7. Guds Born skulu ei alleinasta anlijta Daudann i Drottne, so sem nu hefur sagt vered, helldur og eirnen efter siinu Takmarke, ad hann leider 2) **til Drottens. Eg hefe Lift ad leysest hier frä, og vera med Christo**, seger Paulus Phil. 1. v. 23. hvad eirnen miklu betra er; Þeir sem deya i Drottne, þeir deya lijka til Drottens. Þad sem Paulus seger umm oss efter Upprisuna 1 Tess. 4. v. 16. þad sama heiter og umm Saaler vorar efter Daudann: **Vier munum hiä Drottne vera alla Tijma** seger hann. Þeir gudhræddu eru ad sonnu her i Lijfe hiä Drottne, og med Drottne, i andlegre Sameining, i Hegdan og Umgengne, so sem seger umm Enoch, ad **hann hafe gengid med Gude** Gen. 5. v. 22. þad er: Aa Guds Vegum; Enn i ollu þeßu eru þeir med Drottne, sem framande Foolk 2 Cor. 5. v. 6. Enn nær þeir hafa inngenged Eylijfdena, munu þeir hiä Drottne vera, so sem i einu Heimile, þvi hvar eg er, þar skal og minn Þenare vera, seger Jesus. Joh. 12. v. 26. Þeir munu þä hiä honum vera i Glede og Dijrd, til ad siä þä Dijrd, sem hanns Fader hefur honum gefed Joh. 17. v. 24. og þad ann alls Enda, þvi þeir eru þä komner yfer oll Veters og Adskilnadar Fioll Cant. 2. v. 17. Þo vier missum allt i Daudanum, þä er oss þad noog, ad vier missum ecke Drottenn. Daudenn setur oss i





Land at Himnum af einu Oolguhafe, af vorre Soottar Sæng i Abrahams Skaut Luc. 16. v. 22. hann afklæder oss til ad yfer klædast 2 Cor 5. v. 4. þar verdur ad sonnu eirn Skilnadur, enn þoo soddann eirn, sem velldur nanare Sameining med Gude; Daudenn lætur oss skipta umm Bustade ad vier faaum eirn himneskann fyrer Jardneskann 2 Cor. 5. v. 1. Hann umm-planter oss, sem Tre hedan ur Nædarennar, og þangad i Dijrdarennar Paradis til ad blomstrast i vors Guds Forgord-um eylijflega Ps. 92. v. 14. Guds Born giora bæde ad lifa og deya i Drottne; þaug lifa i Drottne, sem Drottens Limer fyrer Truna, þaug lifa i hanns Otta og Pioonustu, so sem Drottens trulynder Pioonar, þaug lifa i sannre Tilreiding ad taka at moote Drottne, hvort hann kemur fyrer Daudann edur Doomenn, þaug standa ummgyrdt sijnar Lendar, og hafa sijn Lioos tendrud til ad taka at moote Brudgumanum Luc. 12. v. 35. og so sem þær forsiaulu Meyar, sem hofdu Olin at sijnum Lompum Matth. 25. v. 4. Þar geck eirn Tilreiding-ardagur fyrer Hatijdena er Marcus nefner **fyrer-Sabbath**, Marc. 15. v. 42. so vita þeir truudu, ad þar at ad undan-ganga hiat þeim ein Tilreiding under þat stooru Himens Hat-tijd, og eitt fyrer-Sabbath under þad æfvarande og eylijfa Sab-bath Es. 66. v. 23. Jomfrur þær, sem koma skilldu til Kong-sens Samlags, skilldu hafa sijna Tilreidingardaga Est. 2. v. 12. so standa gudhræddar Saaler sem prijddar Brudur moot þeir-ra Brudguma, ad þad heite umm þær, þegar gillda skal: **Lambsens Brudkaup er komed, og hanns Bruder hefur tilreidt sig** Apoc. 19. v. 17. Þeir andlegu Israelitar lata sier sagt vera, þad Spamadyren Amos sagde fordum til Israels Folks Am. 4. v. 12. **Bu þig Israel ad mæta þijn-um Gude!** Guds Born radstafa sijnu Huse, allra hellst Salum sijnum Es. 38. v. 1. strijdande Truarennar goodu

 Strijde,



Strijde, ad þaug kunne ad avinna eyliijft Liif 1 Tim. 6. v. 12. Þaug lifa og deya i Trunne, so sem Paulus seger umm þai truudu i gamla Testamentenu Heb. 11. Þaug hroosa sier af Von þeirrar tilkomande Dijrdar Rom. 5. v. 2. þaug dijrka Gud med sijnu Lijferne, og þaug **dijrka hann eirnen med sijnum Dauda** Joh. 21. v. 19. þess vegna deya þaug **i Guds Naad;** Gud stendur hiaa þeim, og openberast med Naadenne i þeirra Dauda, hann yfergefur ecke sijna, hann seger ecke umm þaa sem þeir ræktarlausu: **Þad sem deyr, þad deye** Sach. 11. v. 9. helldur: **Eg er hiaa honum i Neydenne** Ps. 50. v. 15. Þaug deya **med Guds Huggun;** Gud styrker þaug med Guds Anda Hugsvølun og Vitnesburde i þeirra sijdarsta Dauda-Strijde; Hann breiter ecke vid þaug, sem breitt var vid Uriam, sem var settur i ondverda Fylking og so forlaatenn 2 Sam. 11. v. 15. helldur høndlar hann vid þaug sem Christur vid Petrum aa Sioonum nær hann took ad søckva, **þaa rette hann honum sijna Hønd** Matth. 14. v. 31. og vid Stephanum, hverium hann, ad opnudum Himne, openberadest i Andlaatenu, Act. 7. v. 56. og vid Simeon, sem under Daudann feck Jesum i Faanged Luc. 2. v. 28. hvar ut af þaug faa Jobs Hughreyste, og segia af hanns Bookar Cap. 13. v. 15. **Þoott hann vilie deyda mig, skyllde eg þoo samt ecke vona? Hann mun verda mer til Hiaalpræde s.** Drottenn sijnde Mosi under hanns sijdasta hid fyrerheitna Land aaleyngdar af Fiallenu Pisga i Eydemørkenne Devt. 34. v. 4. so sijner Drotten sijnum daudvona Børnum inni Himnarijke fyrer eirn æskelegann Himnarijkes Forsmeck; hann inngefur þeim nockra ferska Dropa af þeim eyliifu **Vellystinganna Straumum** Ps. 36. v. 9. hvarvid þaug gioraft afhuga øllu tijmanlegu, enn þyrst efter Gude Ps. 42. v. 3. og þvi himneska.

Þessu

Þesu veldur Andans Vitnesburdur i þeirra Hiørtum Rom. 8. v. 16; Hann bijr i þeim, so sem sijnu eigenlegu Mustere, og uppfyller þaug med allshaattadre Guds Fyllingu; Hann hefur i þeim bued og verkad alla þeirra Daga bæde i Medlæte og Mootlæte, so vill hann hverke, ne kann ad forlaata þaug edur forsooma a þeirra sijdurstu Stund, þegar hanns Hiaalpar er mest Þørf. Þetta er saa **Andans Frumvoxtur** Rom. 8. v. 23. hanns endurfædande og helgande Naad, og i henne Forsmeckur þeirrar Himnesku Endurnijunar og Forklaarunar, sem giorer þaug fullviss umm þa fullkomnu Kornskeru Dijrdarennar. Þaug deya **til Guds Rijkes:** Þeirra Hlutdeild tekst ecke af Lijfsens Book, og af þeim h. Stad Apoc. 22. v. 19. Þoo þaug hafe enga Hlutdeild framar i þvi Jardneska Pred. 9. v. 6. Þaug eru hiaa Gude so fliott þaug hedann leysast, þoo **þeirra Jardneska Tialldbudarhus verde nidurbroted** 2 Cor. 5. v. 1. þaa fara þaug ecke Husvill. Þeirra Saaler raafa ecke raadstøfunarlausar, ei helldur sofa, miklu sijdst drijfast i nockurn so kalladann Hreinsunarelld, helldur eru þeir frammlidnu **sæler fraa þvi nu**, edur **upp fraa þessu**, seger Textenn, þad er ad skilia, strax efter Daudann. Þeirra Ummskipte verda flioot. Þaa strax, sem Saaler þeirra eru uppleystar fraa Lijkamanum, verda þær innbundnar i **Bindene Lifendra** 1 Sam. 25. v. 29. **J Dag skalltu vera med mer i Paradis**, sagde Jesus Luc. 23. v. 43. Saalen er strax i Guds Himne og Hende epter Daudann, **hvar engin Pijna snerter hana** Sap. 3. v. 1. Þegar ein christen Saal leysest fraa Lijkama þessa Daudans Rom. 7. v. 24. þaa giorer hun þaug herlegustu Ummskipte, sem engen Mannlegur Skilningur fær griped og engen Tunga utsagt. 1 Cor. 2. v. 9. Þad var mikel Ummbreiting sem skede fordum a Joseph, ad hann a eirne

Stundu



Stundu vard af einum Fanga hinn nærste Kongenum, hanns Fangahleckier og Bønd ummbreittust til Gullhrijnga og Festa, hanns Fangelsesklarvar i Perle og Purpura, hanns utskaded Foragt og Mæda til Æru og Aalits Gen. 41. v. 42. Stoor var Ummbreiting sem vard fyrer Ester og Mardocheo, sem af herleiddum Faungum komust til Konglegrar Tignar Est. 8. v. 15. Enn engu hvilijku mаι samjafna vid þaug sælu Ummskipte Gudsbarna i Daudanum, sem ummbreiter øllu þeirra Tilstande og setur þaug i þaι sælu og oeummbreitanlegu Eylijfd. Þaι afklædest Saulen þvi daudlega Lijkamans Klæde og iklædest med Himneskre Dijrd og Birtu; Hun forlætur þaι i einum Svip þann synduga Heim og fer til Himensens, hvar Rettlæted bygger 2 Pet. 3. v. 13. Hun forlætur Eymdanna uppvægt Haf, og kemst i Himnarijkes roosama Høfn, hun fer fraι Myrkrum til Liooss, ur Ooroo i Roo, fraι Graιte og Taurum til Glede og Fagnadar. Þegar þaug lijkamlegu Augun afturlykiast og siaι eckert i Heimenum, þaι sier Saulen inni Himnarijke; þaι gengur þad til fyrer Guds Børnum, sem David kvedur ad þeim, sem leystust ur Babilons Fangelse Ps. 126. v. 1. nefnelega, so sem dreymande, og þeirra Munnur fullur af Hlaιtre, og þeirra Tungur af Lofgiørd. Þeim gengur þaι sem Petre þegar hann fyrer Guds Eingel leystest ur Fangelsenu, ad hann gat siaιlfur i fyrstu ecke þvi nærre geted hvørnen þad var sked fyrer honum Act. 12. v. 11. Ellegar so sem fyrer St. Paule, sem ei visse hvort hann var i Lijkama edur ecke 2 Cor. 12. v. 3. Þaug deya i Fride vid Gud, i Samvitskunnar Fride, til þess eilijfa Fridar, Hvijlldar og Roosemdar, efter þvi sem Johannes seger i sijdara Parte vors Texta, hvar af vier høfum ad athuga, efter þad vier høfum sied Aalyktunena um christenna Manna Dauda.

II.





## II. Aalyktunarennar Grunndvoll.

Edur sialf Rökenn og Aastæduna til þessa, nefnelega: ad þeir truudu frammlidnu niota tveggia æskelegra Friiheita, sem eru:

1) Hvijlld frá þeirra Erfide og 2) Laun fyrer þeirra Erfide. Skodum þá 1) Hvijlld frá þeirra Erfide. Andenn seger, ad þeir hvijlest frá þeirra Erfide, stendur hier. Þad er stoor Aastæda og Stadfesta Huggunarennar, ad Andenn seger þad. Johannes heyrde Raust þessa af Himne. Andenn hefur talad þetta fyrer Johanne; Andenn hefur sagt hønum ad skrifa þad, og Andenn seger þad enn i Hiörtum truadra fyrer sinn innvortes Vitnesburd Rom. 8. v. 16. Andenn er sú Smurning af þeim Heilaga sem oss allt kenner. 1 Joh. 2. v. 20. Andenn er Guds Innsigle sem oss innsiglar 2 Cor. 1. v. 22. og oss fullvissa giörer umm þesse og önnur Guds Fyrerheit. Þetta er vijst ecke sem Holld og Blood seger, helldur þad sem Andenn seger; Hvör Eyru hefur, sá heyre hvad Andenn seger Samkundunum Apoc. 2. v. 29. Andans Ord og Lofaner eru oss ein Briooßtveria og Skiølldur moot allre Efaseme. Hvad seger þá Andenn? Hann seger, ad þeir hvijle af þeirra Erfide. Daudenn nefnest i þessu Tillite medal annars, Svefn, so vijda i Ritningunne 1 Cor. 15. v. 18. Matth. 27. v. 52. Stulkann er ecke daud, helldur sefur hun, seger Jesus Matth. 9. v. 24. Þvi bæde hvijlast Salir þeirra truudu frammlidnu i Dijrdenne, og Lijkamerner i Jordunne. Þeir frammlidnu eru eitt h. Sæde sem hvijler i Jordunne til sijns Tijma 1 Cor. 15. v. 37. Hvijllldenn er sæt fyrer þá sem erfida; Pred. 5. v. 12. hana faum vier i Daudanum, þegar vier höf-



um uterſidad, og ſo lenge bored Hita og Punga Dagſens Matth. 20. v. 12., Þu Daniel ſkallt hvijla og uppſtanda til þijns Hlutſkiptes aa Daganna Enda: ſagde Eingellenn. Dan. 12. v. 23. Vor Daude er ſem Jſraels Utgaungur af Egyptalande til ad komaſt til Frelſes; Þeir komuſt fraa þeirra Tigulſteina Verke til ad ſiaa eitt Verk ſem Saphir-Stein under Guds Footum Ex. 24. v. 10. Heimurenn er vort Erfidesplaatz, Hann er ecke eirn Rooſa Lundur fyrer oſs, hvar vier megum gaunga ydiulauſer i ooſlijtande Forlyſtingum; Þad heiter ecke umm oſs ſem Pharao ſagde umm Jſrael. Folked gengur ydiulauſt Ex. 5. v. 8. Hann er ecke ſem Torged, hvar menn kunna ad ſtanda ydiulauſer, Matth. 20. v. 3. helldur hefur hier hvør ſinn Vijngard, Kall, og Stiett, ad erfida i; Heimurenn er ecke ſem Morkenn fyrer Graſed og Liliurnar ſem hvorke vinna nie ſpinna, ei helldur ſem Lopted fyrer Fuglana, ſem hverke ſaa ne uppſkera, Matth. 6. v. 26. helldur ſeger Job, ad Madurenn ſe fæddur til Mædu eins og Fuglarner til Flugſens. Joh. 5. v. 7. Erfided gengur oſs nu ecke ſo lett ſem i Paradis, þaa Madurenn fyrer utan Mædu og Þreyting giørde ſitt Verk; þvi efter Falled heiter þad: J Sveita þijns Andlites ſkalltu þijns Brauds neyta Gen. 3. v. 19. Þar er þungt Ok yfer øllum Adams Børnum ſeger Syrach Cap. 40. v. 1. Þegar vort Lijf hefur vered koſtulegaſt þaa hefur þad ei utan Erfide og Armæda vered, ſeger Moſes Pſ. 90. v. 10. Ad eg nu ei margt tale umm allt annad Andſtreyme Mannſens, ſem ekke verdur taled, og vier megum reikna þann meſta Part hanns Erfides, þvi þad mengar ſig inni allt hanns Erfide, ſo ſem Sootter og Siukdoomar, Orbyrdg, Unmſautur, Brigdlynde Luckunnar, enn þoo allra meſt Syndenn ſem i oſs bijr, er allt ſo utſlijtur

Lijkama

